# Tvennar Hwss-Lesturs og Viku-Bæner,

Til ad brwka Kvøld og Morgna.

I. Ioh. V. v. 14.
Þesse er sw Diørfung sem vier høfum til hanns, ad ef vier bidium nockurs epter hañs Vilia, þa heyrer hañ oss.

Seliast almennt innbundnar 6. Fiskum.

Prentadar a Hoolum i Hialltadal,
Af Gudmunde Jons Syne,
1781.

Psalm. 55. Vers. 17. 18.

Eg vil akalla til Guds, og mun DRotten hialpa mier: Um Kvøld, Morgna og Middege, vil eg kveina og græta, þaa mun hann heyra mijna Raust.

# Gudrækenn Lesare!

Epter þad eg kom hier til Hoola Biskups-Stools, nærstlidenn 23. Septembris, hefe eg feinged ad vita, hier a Stoolnum lægiu Oselldar Bækur og Materiur i Fiollda, og eg þeckte adur, ad i Skalhollts Stipte er miked af Theologiskum Bookum, hier og hvar utgeinged; Hvors vegna Hr. Oeconomo Stoolsens, og mier, kom þad samann, ad Pontoppidans Catechismus skylde i Vetur Uppleggiast i Bookþryckerienu, af þvi Stiptenn bæde, sierdeiles Hoola Stipte, vantade hann allvijda, enn þoott hier epterlæge fa-ein, edg 150. Exemplaria; Þess vegna, þar sw Omissannlega Book, er nu allareidu þryckt,



vill

vill Hr. Oeconomus ad Prent-verks-Foolked sie ei Ydiulaust, og þau Materalia sem Afgangs eru, sieu brwkud þann Tijma sem Afgangs er i Vor til goodra Nota; Hefur hann þvi calyktad med mijnu Samþycke, ad þessar minnar Viku Bæner verde a Prent upplagdar. Bænernar hroosa sier sialfar, i allra Gudhræddra Hiortum, sem þær lesa og brwka: Og þoott þær sieu wtkomnar fra minne Hende, hindrade þad ecke mitt Sookn-ar Foolk i Gaulveriabæ, ad brwka þær med Lyst og Epterlangan, og so vona eg marger giore. Af ødrum Bæna-Bookum er noog i Landenu; Enn eg meina þessar hveretveggiu, hondle fremur ødrum, um̃ þær andlegu Giafir Guds, i hverium, hver sem vill audgast fyrer Bænena, hann hefur noogu morg Fyrerheit Guds um̃ þær Tijman̄legu, epter Guds Vilia.

Hoolum i Hialltad. d. 2. Apr. 1781.

John Teits Son.
Superint. Hoola Stiptes.

Viku-

# Viku-Bæner.

## Sunnudags Morgun Bæn.

Þu mikle, hæatignarlege og Oendanlege Gud, myskunsame nœduge Fader! Vier vilium lofa, prijsa og upphefia þitt Nafn: Þvi þu hefur heyrt vora Bæn; Þu hefur fyrer þijna almœattugu Hond, vardveitt vorn Lijkama, geymt vora Sœal, lœated oss hvijla roolega, uppvakna med goodre Heilsu, og frijad oss frœa allre Olucku, og frœa Daudans Snorum: Lœat oss þvi i Dag, O Gud! vor Gud! Offra þier, sem œavallt giorer vel vid oss, vorum Lijkama og Sœalu, og innelega gledia oss þar vid, ad þu unner oss þeirrar Nœadar, ad vier med Fognude og Fride, meigum gœanga upp i þitt Mustere; Heyra þig, vor Gud, til vor tala, fyrer þijna Sendeboda i þijnu Orde, og aptur tala vid þig, O vor Gud, og vor Fader,

i vorum Bænum. Þviad vissulega er eirm Dagur betre i Þijnum Forgarde, enn annars Þusund, og helldur villum vier vera Dyra Vaktarar i Hwse vors Guds, enn leinge bwa i Bwstodum Ogudlegra, Þvi Þu, Gud DRott enn vor, ert Sool og Skiolldur, og lætur eckert Gott vanta Þa Froomu, sem elska, heidra og hlijda Þier. DRottenn Zebaoth! Sæll er sa Madur sem vonar a Þig: Sæll er sa sem Þu wtvelur, og lætur koma til Þijn, ad hañ mege bwa i Þijnum Forgarde, Þvi hann hefur meire Huagun af Hwse Þijns H. Musteres; Af Þijnu Orde, sem Þar verdur kunngiort; Af Þijnu Logmaale, sem Þar verdur wtlagdt; Af Þinne Evangelisku Naad, sem Þar i Þijnum Syne og fyrer hanns Blood og Fullnægiu, verdur tilbodenn ollum ydrande Saalum; Af Þeirre Saalar Fædu, sem Þu Þar af Þijnu Borde gefur Þeim Saalum, sem hwngra og Þyrsta epter Þier; Af Þeim Bænum og Lofsaungum, er med samtakande Hiortum og Twngum, i Elsku og Trw, med Angre verda offrader, Þier, vor Gud, Himens og Jardar DRottenn. Eñ epter Þvi Þu, O DRottenn Zebaoth! Þu mikle og Ondannlege Gud, Þu, hvern Himnaña Himnar ei fa teked, ecke byr i Þeim Musterum sem med Hondum eru giord, so lat oss tilbidia Þig, sem ert einn Ande, i Anda og Sannleika, og odlast Þad af Þier, vor Gud, sem hef-

ur ſkapad vorn Lijkama og vora Saal, ad þu og ſiaalfur vilier endurſkapa þau, og giora ad þeim Muſterum, ſem ſieu hæfileg til ad uppfyllaſt med þig. Uppfyller þu vora Saal, hvad kann oſs þaa ad breſta? Nær vier erum ſamteingder vid þig, O þu allrar Giædſku Uppſpretta, fraa hvoriũm allar goodar og fullkomnar Gaafur hafa ſinn Uppruna, munum vier fiña Hvijld Saalum vorum i þier, niota Forſmeckſ af epterkomande Glede, hier i Tijmanum, og epter Tijmann eilijfrar Hvijldar, eilijfs Fridar, eilijfrar Glede og Sælu. Laat oſs þaa, O! vor Gud, O! vor Frelſare, med Mariu utvelia þad gooda Hlutſkipted, ſem ecke mun fraa oſs takaſt; Sem ſkal kenna, Vegviiſa, hugga, ſtyrkia, vidhalda oſs i Lijfinu, fylgia oſs i Daudanum, og verda vor meſta Glede epter Daudañ, uñ alla Eilijfd. Laat oſs med henne i hreinne Hiartans Audmykt, med Gyrnd til ad læra, med alvarlegre Adgiætne, ſetia oſs nidur i Dupted hiaa þijnum Footum, O! vor Gud, og heyra þig, ſem ſo opt, jaa, Oaflaatannlega, og aa Oteliande Haatt talar til vor. Taler þu til vor fyrer þijn Handaverk, ſo laat oſs hlijda þeirra Rauſt, ſem bijdur oſs ad lijta til þijn, vors og þeirra Skapara og Vidhaldara. Taler þu til vor fyrer þitt aa Sinai Fialle utgefna Logmaal, og kenner oſs vora Skyldu, ſo laat oſs heyra þijna Rauſt, fyllaſt med Lotningu fy-

ter þessum helgu, dijrdlegu, eilijfu, Oumbreit-anlegu Logum, enn þar hia þeckia vort Dug-nadarleyse til ad uppfylla þau, og skelfast af þeir-re Bolvan, sem i þeim er af þier vidlogd, og sem af sialfre sier hlijtur af þeim ad fliota, nær vier ecke holdum og uppfyllum þetta þitt eilijfa, Oraskañlega Logmaal, og ecke flyum til þess Tals-manns, Medalgaungara og Forlijkunar-Mañs, sem þu tilbijdur og framselur oss, i þijnu gledeslega Evangelio. Taler þu þar til vor fyr-er vorn Frelsara um̃ Frid og Forlijkun vid þig, vor Gud, um̃ Frelse og Saaluhiaalp; O! So laat oss heyra þig, rett adgiæta og skilia þijn Bodord, og þeckia þijna Vegu. Hrooper þu til vor allra: Komed til mijn aller, þier sem Erfided og Þwnga erud hladner, eg vil endur-næra ydur; O! so laat oss og, so vier kunnum ad komast til þijn, þeckia, merkia og graata, vorra Synda miklu og Oþolande Byrde, sem nidurþrycker oss til Helvijtes, ef þu ecke tekur hana fra oss: Laat oss, eins og þu bijdur, taka þitt Ok uppa oss, og læra af þier, þvi þu ert Hoogvær, og af Hiarta Lijtellaatur, uppa þad vier, eins og þu lofar, meigum finna Hvijld Saalum vorum, þviad þitt Ok er sætt, O! ei-skulege J elskare, er þolanlegt, og þijn Byrde er liett. O! hvad liett er þijn Byrde, sem þu uppaaleggur þijnum Bornum, er þu fryar fra Syndarennar og Logmaalsens Byrde, þar þu

einkes

einkes krefur af þeim, utann ad þeckia, yfirbevijsast og trwa, ad þar er eingann Frelsara, einga Endurlausn, einga Sælu ad finna, utañ i þier, sannur Gud og Madur; Ad elska þig, sem hefur elskad oss so heitt, ad þu sem varst Gud, ert ordenn Madur, og deyder af Elsku vegna vor, sem vorum þijner Oviner; Ad elska þig, þaa hærstu, fullkomnustu, helgustu og dijrdlegustu Veru, og i þier og þijn vegna, ad elska vora af þier, æsamt med oss skapada og endurleysta Brædur; Ad fordast þad sem ablar oss tijmannlegrar og eilijfrar Fordiorfunar, og nidurlæckar vora Sæl, og ad fylgia og lijkiast þier i voru Frāmferde, so vier kunnum ad verda hæfir og hendtuger til ad niota fullkomennar Lucku fyrer fullkomna Sameiningu vid þig i Eilijfdenne. Enn taler þu, O! Frelsare, fyrer þinn Anda, sem þu wtheller i vor Hiortu, til vorra Sæalna, so læt oss heyra, adgiæta og hlijda þessare Raust. Straffe hann oss fyrer Syndena, so læt oss hlijda honum, krossfesta Syndena, afþvo oss i þijnu Bloode, gæanga fyrer þinn Krapt i Helganenne, eins og þu ert heilagur, og syna þad fyrer vora Hlijdne vid þijn Bodord, ad vier þeckium þig ad vera vorn HErra, vorn Gud og Fodur. Taler þu til vor fyrer Kross og Mootlæte, O! So læt oss heyra þessa þijna Raust, þæ þu kallar til vor, ad vier skulum afneita Heimenum, taka þiñ

Kroſs ꝍ oſs og fylgia þier ; Fylgia þier i Hei-laglefka, fylgia þier i Hormungum, fylgia þier i gegnum Hormungar, inn i þijna eilijfu Dijrd og Vegſemd. Taler þu Lokſens til vor i Daudanum, þꝍ lꝍt oſs þar heyra, þeckia og gledia oſs vid þijna Rauſt, þꝍ þu kallar til vor ; Ottaſt þu eckert, þvi eg er med þier : Eg, ſem hefi yfirunned Daudann, ſem hefi þveged þig i þinne Skijrn, mettad þig vid mitt Bord, leidt og Vegvijſad þier i þijnu Lijfi, ſtyrkt þig i þijnu Mꝍttleyſi ; Eg, ſem nu ſtyrke þig, og er hiꝍ þier til ad medtaka þijna, fyrer mitt Blood, afþvegnu og hreinſudu Sꝍl, og leida þig inn i mijns Fodurs Fognud ; Eg, ſem og ꝍ Enda Daganna mun framkalla þinn Lijkama af Grofinne, og giora hann dijrdlegann, andlegann og Odaudlegann. Lꝍt þꝍ þetta dijrdlega gooda Hlutſkipted, ſem Maria hefur utvaled, ſem hvorke Daude nie Lijf, hvorke þad nꝍlæga nie þad Okomna, fær frꝍ oſs teked, O Gud ! vor Gud, verda vort Hlutſkipte, ſo finnum vier Hvijlu fyrer Sꝍler vorar hier i Tijmanum, ſo finnum vier Sꝍluhiꝍlpena nær þu talar til vor : Komed bleſſader og erfid þad Rijke, ſem ydur er tilbued, fyrer hvert vier og þꝍ um alla Eilijfd, O þu þrij-eine Gud ! Skulum loſa og vegſama þig ꝍn Enda.

Fader vor, ꝛc.

Sunnu-

## Suñudags Kvold Bæn.

O Gud! Hvers Kiærleike til vor, þiña aumu Skepna, er so stoor sem þu ert sialfur, og so Oendañlegur, sem þu ert. Þier sie Lof, Prijs og Æra, ad þu og aptur i Dag, þann fyrsta Dag i þessare Viku, hefur gefed oss nij og þeckiañleg Teikn og Bevijsingar, uppa þinn Kiærleika vid oss, i þvi ad þu hefur vardveitt vora Lijkame. Þu hefur fædt og endurnært vorar Saaler, med þijnu lijfkroptuga Orde; Þu hefur sannfært og straffad vorar Synder, og synt oss þann einasta Veg til þijn, og Saaluhiaalpena fyrer þiñ eingetna Son, vorn einasta Frelsara. Enn hvernig skyldum vier nu dyrfast ad nalægia oss til þijn, O Gud! añadhvert med Lofsaung edur Akallan, vier aumar Skepnur, þu Oendanlege og almaattuge Skapare? Vier synduger og vanhelger til þijn, þu rettlaata og heilaga Vera? Hefde ecke þinn yfergnæfañlege Kiærleike, komed þier til ad biooda oss ad þeckia og yfirvega þig, ei alleina sem vorn Gud, vorn Skapara, vorn Herra og Stioornara, heldur og sem vorn Fodur. Lof sie þier þa, O Gud vor Fader, þu sem ert a Himnum, fyrst og einkum fyrer þennann þann mesta af ollum þijnum Velgiorningum, ad þu vilder aalyta oss, sem þijn Born, og ad vier med fullu Trauste meig-

um koma til þijn i Bæn og Akallan, so sem tik eins nꝏdarrijks elskulegs Fodurs. Lof sie þier vor Fresſare, ad þꝏ vier hofdum tapad þessum Barna-Rette, og vorum ordner Guds Oviner, þa hefur þu afrekad oss þann sama, fyrer þijna fullkomnu Hlijdne og Fullnægiu. Þad er fyrer þijna Verdskuldan, ad vier nu med Diorfung meigum framkoma fyrer Gud, eins og eiñ fridstilltann Fodur, og med Traustie og Fullvissu uñ nꝏduga Bænheyrslu, framfæra fyrer hañ þꝏ Bæn, er þu sicalfur hefur keñt oss. O Gud vor Fader! þu sem ert a Himnum, þu sem sier, þecker og megnar alla Hlute, og avallt stendur med wtbreidda Elskuñar Arma, tilbwna til ad fadma oss, nær vier, eins og hlijden Born, innflyum til þijn, holdum oss til þijn, elskum og heidrum þig, sem vorn Fodur. Þu sier vorn Breiskleika, hiꝏlpa oss med þijnu Almætte; Þu þecker vora Fꝏvitsku, leid þu oss med þijnum Vijsdoome. Vier styggium þig optlega, stundum fyrer Illgyrnes- stundum fyrer Breiskleika- og Athugaleyses-Synder; Straffa oss þar fyrer O Fader! enn ecke i Reide, og burtkasta oss ecke, heldur leid oss aptur med þijnum Anda a rettann Veg. Ert þu sꝏ almꝏttuge, sꝏ alvijse Gud, vor Fader, hvad skyldum vier þꝏ Ottast? Hvad kann þꝏ ad skada oss? Þitt Almætte vill Noott og Dag, seint og snema, i Lijfe og Dauda, vardveita oss; Þinn Vijsdoomur vill

ætijd

ætijd leida oss (hverſu Ogriipannleger ſem Þijner Veger ſynaſt fyrer oss ſkamſynum Skepnum) æ þann beſta, Ohultaſta og ſæluhiælplegaſta Veg. Þu ert einn trwfaſtur, elſkulegur og Oumbreitannlegur Fader, læt oss þa, O Gud og elſkulege Fader! ecke fyrer vora eigen Skuld, tapa þeirre miklu Vegſemd, ad vera þijn hlijdꝛen, ſonn og elſkuleg Born, þvi þa være oss betꝛra aldrei fæddum ad vera. Erum vier þijn Born, þa læt oss og ſyna þad i vorre Umgengꝛnie, ad vier lijkiuſtum þier, vorum Fodur, i Heilagleika, i Rettlæte, i Hreinlynde, i Elſku til vors Næunga, i þvi ad keppaſt epter Fullkomꝛlegleikanum, inn til þeſs vier lokſens odluſtum han hiaa þier i þinne Viſtarveru, nær vier ſiaum þig Auglite til Auglites, og forklaruſtum epter þinne Mind. Þitt Nafn er heilagt og dijrdlegt, enn ſieum vier þijn Born, þa læt oss og ſo ſem Born, er innelega elſka ſinn Fodur, af frekaſta Megne koſtgiæfa ad wtbreida þeſs Heilagleik og Dijrd. Læt oss ſo lijkiaſt þier, ſem vorum Fodur, i voru Framferde og Sijſlunum, ad aller meige ſiaa og þeckia, ad vier ſieum þijn Born, og vegſomum þig vorn Fodur a Himnum. Læt oss ætijd kunngiora þijna Dijrd, þijn HandaꝛVerk, þinn Vijsdoom, þijna Velgiorninga, vid þa ſem Ottaſt þig. Læt oss aldrei byria edur enda nockurn Dag, eda nockurt Verk, an þeſs ad akalla, loſa og þacka þier, og vijdfrægia þitt

Hroos,

Hroos, sem lyktar alla Hlute so dijrdlega; So mun vor Hegdan og Sijslan um̃ Dagenn, so mun vor Svefn um̃ Nottena, so mun vort Lijf og Daude verda blessadur, luckulegur og farsæll. O Gud vor Fader! þu sem ert a Himnum, heyr oss þijn Born, og nu a þessum Tijma, er vier med vissu Trauste i Christi Nafne akollum þig, og bidium um̃ blessada Nætur-Hvijld.) Fyrergef oss, O Gud vor Fader! i Naad þær Synder, er vier i Dag hofum framed a moote þier, og lꝏt oss a Morgun helga og vegsama þitt Nafn, so vel med voru Lijferne, sem med vorum Verkum. Fader vor, ꝛc.



## Maanadags Morgun Bæn.

O Goode og milde Fader! Hvers Hꝏsæte er a Himnum, hvers Nafn er heilagt og dijrdlegt, vier þijn Handa-Verk, er þu veiter þꝏ Nꝏd ad kalla þig Fodur, hofum nu nija Ordsok ad helga, dijrdka og vegsama þitt Nafn, og lofsyngia þier, vor Fader, fyrer þad, ad þu af þiñe elskulegu Um̃sorgun, og med voldugre Verndan a þessare Noottu, hefur uñt oss roolegrar Hvijldar, og vardveitt oss frꝏ ollum Skada og Tioone. O mikle Gud! Andaña Fader, tilreid þu so vorn Anda og Saal, ad vier ei misbrwkum þennañ Dag, sem þu hefur uñt oss til ad

ad lifa ꝏ, ad vier ei vanhelgum þitt Nafn med syndugum Lifnade, heldur af fremsta Megnekappkostum i allre vorre Hegdan, ad syna þad vier sieum þijn sañarleg Børn, so vier elskum og heidrum þig, vorn Fødur, so vier i Medlæte og Mootlæte, høfum fast Traust til þijn, sem eins elskulegs Fødurs, sem vijst og Obrygdannlega vilie blessa allt þad vier tøkum oss fyrer Hendur i hañs Nafne, og epter hanns Bode og Kallan, og vissulega vilie gefa oss þad sem þienar til vors sanna Gagns og Gooda. Kenn þu oss ad þeinkia, O Gud! ad þu ei alleina ert vor Fader, heldur og vor Kongur og DRottenn: Ad þu alleina, O Gud, vor Gud! ert DRotteñ, Kongur Konganna, og DRotteñ Drottnaña. Þu rædur og stioornar yfer øllu þvi sem þu hefur skapad og frañleidt af eingu. Þitt Rijke er ꝏn Enda, allar Skepnur eru þijner Undersꝏtar, þu drottnar yfer þeim øllum, med Magt og Vallde þvi sem eingenn Hlutur kann i moote ad standa, yfer þeim Ohlijdnu og Þverbrotnu; Med Nꝏd og Myskun yfer þeim Hlijdnu; Med Oransakannlegum Vijsdoome yfer þeim øllum. Enn lꝏt oss, O Gud! eige nægiast med þetta, ad vier med øllum Skepnum erum innelukter i þetta Rijke, heldur innelega, alvarlega og Oafsꝏtannlega frañsæra fyrer þig þꝏ Bæn, sem vor Frelsare sialfur hefur kennt oss: Tilkome þitt Rijke. Uppreis þad ꝏ medal vor, jꝏ, iñra

i oss

i oss. Þu hefur auglyst og framsett fyrer oss þitt Løgmaal: Kenn oss, O Gud! ad þeckia og adgiæta þess rettann Kiarna, og nær vier hofum lært hann ad þeckia, þaa veit oss Krapt og Vilia til ad hlijda og lifa epter hønum. Hvad gagnar þad oss, O Gud! ad þu hefur upprett þitt Rijke medal vor, ad þu hefur gefed oss þijn Log, so leinge sem þitt Rijke ecke er stiftad hid innra i oss og i vorum Saalum, so leinge sem þitt Løgmaal ecke fyrer Elskuna til þijn innþryckest i vort Hiarta? Þu ert sannlega komenn i Heimenn, O Jesu! til ad kollkasta Satans Rijke, og aptur i þess Stad, ad uppreisa þijns Fodurs Rijke hid innra i oss. Kollkasta þu, O almaattuge Frelsare! þeim Tyronnum, sem drottna yfer oss, brioot þad Ok, sundurslijt þaa Hlecke, sem þeir hafa lagt aa oss: Augnanna Lyst, Holdsens Gyrnd, og Drambseme. Heimurenn og Heimsens Hofdinge, hafa hijngad til drottnad yfer oss, tak, O JEsu! sem ert oblugre og maattugre fraa þessum Tyronnum þeirra Magt. Kenn oss ad þeckia og skygnast epter Vijsdoomenum af þijnu Løgmaale, laat oss reyna og proofa þaa Glede og Rooseme, sem sprettur af þess Hlijdne, og umm sijder veit oss þau sælu Laun, er þu af Naad, fyrer Christi Skuld, skeinker þeim, sem, þoott þad sie i Ofullkomlegleika, med froomu Hiarta hlijda þijnum Bodordum. Þinn Vilie, sem ætijd hefur Vijsdoomenn fyrer sinn

Upp-

Uppruna, samt Goodgyrnena fyrer Upphvatning og Tilgang, hañ fullgioreſt fyrer þa Skuld med stærstu Fullkomnan og inneleguſtu Glede i Himnenum, af þeim fullkomnuſtu Rettlætes Ondum. Veit oſs, O Gud! ad vier og hier wti lærum þañ sanna Vijsdoom af þeim! Jar miklu framar, læt oſs fylgia vors Frelsara Footsporum, a hañs Holds og Mootgangs Dogum, þa hann sagde: Verde, O Fader! ecke minn, heldur þinn Vilie. Læt oſs og segia þad sama, hvert oſs lijdur vel eda illa, hvert vier lifum eda deyum. Þu, O kiære Fader! hvers Hiarta fullt er af Elſku til vor, þinna Barna, þu villt ætijd oſs hid betsta. Þu, O Vijsdoomsens Uppſpretta! þecker beſt þa Vege og Medol, sem leida þar til: Verde þvi, O Gud! þinn Vilie hier a Jordunne, sem hann ſkedur a Himnum; So ſkedur viſſulega þad sem þienar til þinnar Dijrdar, og vors tijmannlegs so vel sem eilijfs Gagns og betsta. Hialpa oſs ad yfirvinna vorn eigenn Vilia, hver ed optlega afvega leiddur af vorum Tilhneigingum, vill þad sem þienar til vorrar Fordiorfunar; Kenn oſs ad laga hañ epter þijnum Vilia, og so aldeiles ad afhenda og underkaſta vorn Vilia, þijnum vijsa og elſkulega Vilia, ad vier ei vilium añad enn þu villt, og ad vier ſynum oſs ad vera trwa Þegna þijna, þeſs vijsaſta Stioornara, og hlijden Born þijn, þeſs elſkulegaſta Fodurs. So

munu vor Verk og Fyrertekter, i Dag og hvern Dag, blessast af þier: So munum vier og þañ-ig leidder verda af þier, ad vier um̃ siþer, fra þessu þijnu Nadar-Rijke, verdum flutter i þitt Dijrdar-Rijke, til ad vegsama þar, med ollum wtvoldum fullkomnum Ondum, þijna Giædsku, Vijsdoom og Nad. Fader vor. ꝛc.

## Mannadags Kvold Bæn.

MIJN Saal, lofa DRottenn, og allt hvad i mier er, hanns heilaga Nafn. Vid vilium lofa DRotteñ, so leinge sem vid lifum, og syng-ia ockar Gude Lof, so leinge sem vid erum til; Þvi hanns Nad vid ockur er Oendannleg, og hver kann ad upptelia alla hañs Velgiorninga? Adur eñ vier fædder vorum, hefur þu minnst a oss i Myskun, og fra þvi Augnablike er vier saum Liooſed, iñ til þessa Tijma, hefur þijn Um̃-sorgun fyrer oss, O Gud! vered stærre, enn nockurs Fodurs fyrer sijnum Bornum. Þu hefur aled Oñ, ei alleina fyrer vorre Saal, þeim dijrmætasta Parte vorum, heldur og fyrer vor-um Lijkama, þvi so haglega smijdada Leirkere, i hvert þu hefur nidurlagt þañ Odaudlega Anda, og samteingt hann med honum. Þu þecker og veitst, O Gud! ad so leinge sem þesse Ogriip-annlega Samteinging a ad vara, þa þarf sa jardneske Partur af oss, vor Lijkame, Fædslu sier

til

til Vidurhalds, Klæde til ad hylia sig med fyrer Kulda og Hita, og Hvijldar til ad endurnæra sig, og ødlast nija Krapta. Hversu nææduglega, hversu yfirfliootannlega, hefur þu O Gud, vor Gud! veitt oss allt þetta? Þu upplykur þinne Hende, og sedur allar lifande Skepnur med þinne Velþocknan. Þu fæder, klæder, endurnærer og vidheldur ollu þvi sem lifer; Ei alleina þijnum Bornum, sem Ottast og ææfalla þig, heldur og þijnum Ovinum, og þeim sem lasta þitt Nafn. Enn kenn þu oss ad þeckia og hugleida, O Gud! hvad stoor Mismunur er ææ millum þeirra, sem þannig uppbera þijna sameigennlega Velgiørninga, hversu Oluckuleger þeir eru, sem niota Goodgiørdanna, og vilia ecke lææta þær leida sig til ad þeckia, elska og vegsama Uppsprettuna, af hverre þær framfliota, og æfram halda so i þvi, ad vanbrwka, O Gud! Rijkdoom þinnar Good-gyrne og Lææglundargeds. Enn sæll er sææ, hvers Hiææp ad Jacobs Gud er, hvers Von ad stendur til DRottens hanns Guds. Lof sie þier, O Gud, vor Gud og nææduge Fader! sem i Dag, og hvern annan af ollu voru Lijfe, so nææddarsamlega hefur veitt oss allt þad vier med þurfum. Lof sie þier, sierdeiles fyrer þad, þu hefur gefed oss upplyst Skilnings Augu, til ad þeckia þig i þijnum Velgiørningum. Kenn þu oss, O Fader! ad setia so aldeiles vort Traust til þijn, ad vier ei sieum hugsiwker fyrer þeirre

Okomnu Tijd, heldur vorpum allre vorre Ahygg-
iu uppa þig.) Gef oss i Dag vort daglegt
Braud. Gef oss i Dag þad er vier þurfum til
Klæda og Fædes, til Lijfsens Uppheldes. Þu,
O Fader! sem gefed hefur þad i Dag og hvern
Dag, sem vier lifad høfum, munt og veita oss
þad hvern Dag, so lenge þad er þiñ nadugur
Vilie, ad vier skulum lifa hier, inn til þess þu
flytur oss þangad, hvar vier ecke þurfum þess
leingur. Skule vort Hlutskipte af þvi Jard-
neska vera lijted, þa gef oss, O Gud! ænægt
Siñe, ad vier ecke vegna Agyrndar til ad ødlast
meira hier af, latum oss leida til ad brwka O-
logleg Medøl, sem strijda i moote þijnum Bod-
ordum; Heldur ad vier bidium og erfidum, al-
deiles visser þar um, ad þad er vier þa ødlustum,
fære med sier þijna Blessan hier, og rijkugleg
Laun a Daganna Enda. Þocknest þier, O
Fader! ad gefa oss Yfirfliootañlegt, þa gef og
veit oss þar med þa Naad, ad vier medtøkum
þad med Þacklæte, brwkum þad med Vijs-
doome, meddeilum þvi, tilknwder af Kiærleika,
vorum þurfande Naunga; So vier aldrei lat-
um vort Hiarta innteked verda af Elsku til þess,
heldur gleymum øllu þessu, sem hier nidre er, og
þraaum epter þeim Fesiood, þeim Rijkdoome,
sem þar uppe er, hvern þu hefur geimt, tilbwed
og ætlad þijnum Børnum. Lat oss, O
Gud! umfram allt, leita þijns Rijkes og Rett-

lætes,

lætes, so mun, af ollu þvi, sem vier vidþurfum i þessu Veralldlega og Tijmannlega, Obrygdannlega so miked hlotnast oss, sem þinn Vijsdoomur sier ad oss er þenañlegt. Þu sem so rijkuglega fæder, klæder og endurnærer þennañ Lijkama, sem ad Jordu skal aptur verda, fæd þu, klæd og endurnær einkannlega þañ Odaudlega Anda, sem þu hefur vid hann samteingt. Fæd þu hañ med þijnu Orde, og þvi i Sacramentenu tilemkada Lijssens Braude. Lat hañ smacka Sætleikann af þessare Fædu, og langa epter þeim Stad og Tijma, nær hañ mun mettast af þier yfirfliootannlega. Klæd hann med þeim Dygdum, sem eru þocknanlegar fyrer þijnum Augum, og med þijns Sonar Rettlætes hvijta Kyrtle, og innleid hann þannig prijddañ þangad, sem hann yfirfliootañlega mun nioota þeirrar Endurnæringar, af hverre hañ hier hefur einasta fenged lijtenn Forsmeck.) So leggium vier oss þa, O Gud! an þess ad sorga fyrer Morgundegenum, i þijnu Nafne, til Hvijldar. Lat oss sofa sætlega under þinne Verndan, og nær vier erum fyrer Svefnenn endurnærder, og sium nijann Dag, þa lat oss og byria hañ med niju Þacklæte. Fader vor, 2c.

*
## Þridiadags Morgun Bæn.

AÐ vorer Lijkamer eru endurnærder fyrer roolega Hvijld, ad vier erum vardveitter fra ollum Skada, af Ellde, Sverde, Pioosum og braadum Dauda, þad hofum vier, O mikle Gud! Þinne Naad, Þinne Verndan, Þinne fodurlegre Umsorgun alleina ad þacka. Laat þvi, O Gud! vorar Varer auglysa Þijna Hroosan, vor Hiortu fyllast med Þacklæte, fyrer so stoora Velgiorninga, og vort Framferde i Dag vera so lagad, ad hver Madur mege sia, ad vier sieum komner fra Myrkrunum til Liooßsens, ad hvor Madur mege þeckia, hvors Born vier erum, og prijse Þig, Fader vor a Himnum. O mikle Gud! hia hverium eingen Umbreiting er Liooß og Myrkurs, helldur er Myrkred sialft eitt Lioos. Þu alleinn veitst og þecker Tolu þeirra Daga, sem þu hefur akvardad oß ad lifa i þeßsum Heime, til þeß ad reynast hier, og tilreidast til añarar betre Veralldar, til eins Lijfs, sem eingañ Enda hefur. Efter Þijnu Vijsdooms Naade, hefur þu funded þad gott og þenanlegt fyrer oß, O Fader! ad þad skule vera huled fyrer vorum Augum, uppa þad, vier hvorn Dag lifa skulum, so sem þeir ed vita þad kyñe ad vera sa sijdarste Dagur, a hverium þad stæde i voru Valldе, ad tilbwa oß til Eilijfdarennar. Mikel er Tala þeirra Daga, sem þu hefur epterlated oß, O Gud! Eingenn af þeim er lideñ,

ꝺan þeſs ad þu fyrer þitt Ord, þinn Anda, og þijna Velgiorninga edur þijnar Typtaner, hafer kallad, undervijſad og ꝺminnt oſs; Enn munum vier hvern Dag hafa hlijdt þeſſare þinne Kollun, og lifad ſo ſem þeir ed hafa hier eingann blijfannlegann Samaſtad, heldur daglega kunna ad vænta þeſs, ad kallaſt hiedann til ſijns retta Heimiles og Fodurlands? Ef ad þu, O Herra! villt ganga i Rett vid oſs, hverneñ ſkulum vier kunna ad ſtandaſt fyrer þier? Vier hofum ſyndgad, O Gud! Vier hofum vanbrwkad Rijkdoom þinnar Giædſku, Poleñmædes og Langlundargeds, og i Stadenn fyrer þad, ad lꝺta oſs leida þar vid, til ſannrar Umvendunar og Hlijdne, þꝺ vitnar hver Dagur vors Lijfs, ja, hver Dag-Stunden ꝺ moote oſs. Vier hofum vitad og þeckt þitt Logmꝺl, og þo med Þverwd yfirtroded þad, i Þaunkum, Ordum og Verkum. Vier hofum vitad, ad þu ert hreinn og heilagur, og ad ꝺn Helgunar kann eingeñ ad ſiꝺ þig, og hofum þo vellt oſs i Heimſens ſyndugum Lyſtingum. Vor Trw hefur vered daud Trw, ſem ei hefur verkad i oſs brennande Kiærleika til þijn, O Fader! ſonarlegt Trauſt, grundvallada Von, og rettſiñada Vandlæting til ad ebla þijna Dijrd, fyrer vort Lijf, ſo ſem fyrer vora Lofſaunga. Vor Kiærleike til Naungans hefur vered volgur. Og ef vier hofum ecke ꝺvallt mootviliuglega og af ſyndugum Aſetninge hond-

lad i moote þijnum Bodordum, ſo hoſum vier þo vered ſo Oadgiætner i vorum Framferdum, ſo hægra er ad telia Sandenn i Hafinu, enn vora Misgiorninga æ moote þier. Eingu ad ſijdur, hefur þu, O goode og milde Fader! haft Þolennmæde vid oſs, allt til þeſſa Dags: Þu tilbijdur oſs enn i Dag, Frelſe og Sæluhiælp, i þijnum Syne, vorum einka Frelſara JEſu Chriſto. Fyrergef þvi, O þu mikle og hæitignarlege Gud! Fyrergef, O elſkulege milderijke Fader! fyrer Chriſti Skuld, allar vorar Oteliande Synder: Og þegar þu Himnaña Herra þannig i Næd fyrergefur oſs veſælum Skepnum ſo marga og mikla Misgiorninga, hvernig getur þad þæ vered mögulegt, ad vier ſkyldum ecke vera reidubwner af innſta Hiarta, ad eptergefa og forlæta vorum Brædrum, ſem eru Hold af voru Holde, og eins og vier þijn Handaverk, þær Avirdingar, er þæ kann hendt hafa imoote oſs? Hvada Jofnudur er þar, O Gud! æ millum eins Broodurs Misgiordar vid añann, og einnar Skepnu Misgiordar, Foragts og Ohlijdne, moote ſijnum Skapara og ſijnum Gude? Gef oſs þvi, O Gud! vor Gud, kiærleiksfullt og forlijkanlegt Hiarta til vors Næunga, ſundurknoſad og audmiwkt Hiarta til þijn, og heyr oſs þæ, O Fader! nær vier ſijdann ſo ſinnader, og æingrader af vorum Oteliande Syndum, i Dag, æ þeſſum vorrar Nædar-Dege, kollum

til

til þijn i Christi vors Frelsara Nafne, og bidium: Fyrergef oss, O Fader! vorar Synder: Fyrergef oss vorar Skulder, so sem vier og fyrergefum vorum Skuldunautum. Vier bidium fyrer þeim, vorum Medbrædrum, vier bidium fyrer oss: Gud vertu oss Syndurunum nædugur; Og þegar þu þa, tilknwdur af iñelegre Myskunseme, hefur fyrergefed oss vorar Synder, fyrer Christi vors Frelsara Skuld, hvern þu af Naad hefur skickad oss til Forlijkunar-Manns, adur enn Heimsens Grundvollur var lagdur, þa lat oss ecke a nij, hverke i Dag nie nockurn Tijma hier epter, hverke af Asetninge nie Oadgiætne, steipa oss aptur i þa somu Olucku, heldur so elska, heidra og hlijda þier hier, ad vier meigum samañsafnast til þijn i Himnenum, og vegsama þig an Enda. Fader vor, 2c.

## Pridiadags Kvøld Bæn.

Einu Footmaale erum vier nu aptur komner nær Eilijfdenne: Einn Tijme, einn Dagur, eitt Ar lijdur þannig Oforvatandis, eins og eitt Lækur i þad mikla Haf Eilijfdarennar, sem eingen Takmork hefur.) Kenn þu oss ad þenkia, O Gud! ad vier hliootum ad deya, uppa þad vier verdum vijser. Kenn þu oss ad þeckia og hugleida, ad þesse naalæge Heimur er ei sa Stadur, i hverium vier eigum ad bwa og blijfa,

heldur ad vier erum hier Pilagrijmar og Veg-farendur, sem ferdunst hier i gegnum, til vors Heimiles, vors Foduzlands, til ad vera þar eilijflega hiaa þier, vor Fader. Hvad er þaa ad undra, O Gud! O goode og milderijke Fader! ad þinn og vor allra Ovinur Satan, aa medann þesse vor Vegferd varer, lætur ei af ad freista vor aa Otelianlegann Haatt, til ad leida oss afvega fraa þier, til vorrar Fordiorfunar? Þad er Syrnd Augnaña, Fysn Holdsens, Heimsens Hiegooma Yfirlæte, og falskur Glanse er þad, med hveriu hann leitast vid ad locka oss. Heimurenn og Heimsens Born, jaa, vort eiged syndugt Hold og Blood, eru i þessu hañs Medhiaalparar. Vort Hyrduleyse, aa medañ vier erum i so stoorum Haaska, og vor Forsoomun i þvi ad brwka þau Vopn og Medol, sem þu hefur wtbwed oss med, eykur vorn Haaska. O þu Gud allrar Speke! Upplys vor Augu, og kenn oss ad þeckia þesse Viela-Net, er hañ leggur fyrer vora Fætur. O Gud vor Fader! sem þecker vorn Breiskleika, veit oss Krapt til ad mootstanda og yfervinna þessar hanns skadlegu Freistingar. Leid oss fyrer þinu Vijsdoom aa þesshaattar Vegum, ad vier ecke follum aa þeim; Eda ef þu leifer, af þijnu Oransakanlega Vijsdooms Raade, ad vier follum aa þeim, þaa leid oss og sialfur wt af þeim, fyrer þiñ Vijsdoom og Krapt, til Eblingar þiñar Dijrdar og vorrar

ar Sæluhiælpar.) Þu, O goode Gud! freist-ar einkis til hiñs Vonda, þijnar Freistingar skie alleina til ad reyna vora Trw, vorn Kiærleika, vora Von og Traust til þijn, til ad hreinsa þau, eins og med ødrum Ellde, so þau þannig hrein-sud, kuñe ad verda þess dijrdlegre fyrer þijnum Augum. Og nær þu þañig freistar vor og reyn-er oss, þa muntu og vissulega, nær vier einasta høldum oss nælægt til þijn i Bæn og Akallan, styrkia, hiælpa og endurnæra oss, og giøra sodd-ann Enda a þvi, ad vier fyrer þad prijsum þitt Nafn. Frelsa oss þa kiære Fader, fra Sa-tans og Heimsens Freistingum, sem vilia afvega leida oss til hins vonda; Frelsa oss fra þvi versta af øllu illu, sem i Heimenum er, sem er Synden, frelsa oss fra þeim illa Anda, sem fyrer Van-trw, Synder, og Þvermoodsku i moote þier, drottnar i Børnum Vantrwareñar. Frelsa oss O! kiære Fader, fra øllu Illu, so vilium vier prijsa og lofa þitt Nafn. Þitt Nafn er heilagt og dijrdlegt, kenn oss, O Fader! ad vegsama og upphefia þad med voru Framferde, eins vel sem med vorum Vorum. Raad og rijk þu, O Kongur Konganna! i vorum Hiørt-um, yfer oss og a medal vor. Lat oss elska og heidra þig og þijn Bòdord, og lat þiñ Vil-ia vera vorn Vilia, so hañ meige fullgiørast af oss og i oss, med eins mikelle Alwd, sem hann fullgiøreſt a Himnum. Gef og veit oss, O

Fad-

Fader! ad allt hvad vier þurfum, og allt hvad þu sier oß vera gagnlegt, af þeßu tijmannlega og lijkamlega; Eñ sierdeiles virdstu ad wtbwa vorar Sᴂler med Nᴂgtum af ollu andlegu, sem þenar til þeirra-Fridar og Vellijdunar. Fyrergef oß, O kiᴂre goode Fader! allar vorar Otelimnde Saker og Yfirsiooner, og med þvi þu ert so orlᴂtur til ad fyrergefa, so lᴂt oß og lijkiast þier i þvi, O Fader! ad vier sieum vilinger og reidubwner til ad fyrergefa vorum Medbrᴂdrum; Og lᴂt oß alla leysta frᴂ Syndareñar Byrde og Straffe, vardveitta frᴂ og i ollum Freistingum, og frelsada frᴂ ollu Illu, samstem̃ande byria hier i Tijmanum þad Hosianna, er vier med Sigur-Saung munum fullkomna i Eilijfdeñe.) Þitt alleina, O þu almᴂttuge, alvijse, þrij-eine Gud! er Rijked, þier alleinum tilheyrer allur Kraptur, oll Magt, oll Dijrd og Vegsemd, frᴂ Eilijfd til Eilijfdar.

Fader vor, ꝛc.



## Midvikudags Morgun Bᴂn.

Notten, sem er Grafarennar Imind, og Svefnenn, Daudans Brooder, eru nu aptur burtvikenn, ᴂn þeß þau orded hafi um̃breitt i Grof og Dauda. Vorer Lijkamer eru endurnᴂrder, fyrer roosama Hvijld, og vor Ande

de er megnugur ad brwka sin Ihugunar Kraft:
Allt þetta, O Gud! hofum vier þinne Nꜳd, þinne fodurlegre Umhyggiu, þinne almꜳttugre Vardveitslu ad þacka; Lof sie þier þar fyrer, O Gud! Vier vilium vegsama þitt Nafn eilijflega. Nu, þar ed Myrkred er burtviked og nijtt Lioos framskijn, so virdstu, O Gud! ad burt-drijfa Myrkuren af vorre Sꜳl og Sinne, og lꜳt þeirrar rettu Þeckingar og sonu Trwar klꜳra Lioos, upprenna i vorum Hiortum; Kenn þu oss ad þeckia þig og siꜳlfa oss; Ad vier meigum þeckia og hugleida, þijna Hꜳtign, og vora Vesalmennsku, og um hvad miked vier erum þier skylduger. Himnarner framtelia þijna Dijrd, og Vegvijsa oss so vel sem Jorden, Hafid og Underdiwped, til þess Guds, sem skapad og stadfest hefur þau. Stiarnanna Oteliande Fiollde og Ridurradan; Soolen, Twngled og Veraldarennar Ogrijpannleg Skøpun og Hrœring, Skepnana ymeslegar Tegunder, sem Sioorenn og Underdiwpen eru full med, jꜳ, vier siꜳlfer, vor Lijkame, þetta af Jardar Leire, so ꜳgiœtlega mindada Meistara Stycke, wtbwed med øllum til Lijssins, naudsynlegum Limum, Sinum, Ædum og Vessum, og til allra Utrettinga naudsynlegum Skilningar-Vitum. Vor Sꜳl, sem er einn Ande, prijddur med Skinseme og Vilia, einn Odaudlegur Ande, inneluktur

luktur og samteingdur vid þann jardneska Lijkama, æ einn Hæ̃tt, sem yfirgengur allann vorn Vijsdoom: Jæ, allt þad sem hefur Lijf, Anda og Veru, auglysir med hværre Raust og einu Ordtake, ad þu, O Gud! sem gafst øllum Hlutum þeirra Veru, siert eilijfur: Ad þu, sem framleidder alla Hlute af eingu, siert almættugur: Ad þu, sem nidurskickar alla Hlute so ægiætlega, siert Vijsdoomsins Uppspretta. Þad var þijn Giædska, O þu allrar Giædsku og Elsku Upprune! sem hrærde þig til ad skapa Skepnur, er þu kynner ad gióra farsælar. Himen og Jord, og allt þad, sem finnst i þeim af Lijfs eda Lijflausum, skiniande eda skinlausum Skepnum, Mønnum eda Ondum, eru þijn Handaverk. Þacker sieu þier, O! vor Gud, ad þu hefur audsynt oss þæ Naad, æ medal alls þessa, ad setia oss i Rod þeirra skiniande Skepna, og giora oss alleina lijted audvirdelegre enn Englana, þar þu hefur samteingt þann jardneska Part vorn einum Odaudlegum Anda, giæddum med Krapte og Mætte, til ad þenkia, ihuga, leita og finna þig, ad útvelia, heidra og elska þig, þann einasta ædsta Gooda. Veit oss þvi, O Gud! þæ Naad, þann retta, sanna Vijsdoom, ad vier aldrei follum til ad elska Skepnuna meir enn Skaparann, þæ Ofullkomnu Veru, meir enn þæ fullkomnustu: Kenn

ofs ſo ad þeckia þaa dijrdlegu Eigennlegleika, ſem finnaſt hiaa þier, O Gud! ad vorar Saaler mege uppfyllaſt med heilögum Otta og Virdingu fyrer þier, vegna þinnar Alvitſku og Almættes, þijns Rettlætes og Vijsdooms; Og med innelegre Elſku til þijn, vegna þiñar Giædſku, Laanglundar-Geds og Kiærleika Rijkdooms, hvers Mæling og Takmørk eru ſo Oendanleg, ſem þu ert ſiaalfur. Hvernig ſkulum vier, O Gud! vor Gud, endurgialda þier alla þijna Giædſku, ſem þu hefur audſyndt ofs? Ad þu hefur ſkapad ofs af eingu, til ad verda Skinſemdarfullar Skepnur: Skapad ofs af eingu til ad verda farſæler, ef vier ecke vildum ſiaalfer mootviliuglega hindra þad; Þad eru, O Gud, ſo mikler Velgiørningar, ad eckert Mannanna Sinne eda Skilningur kann ad wtgrunda þann Kiærleika, ſem hefur hrært þig þar til. Medtak þvi, O Gud, vor Skapare, þad einaſta, ſem vier getum wtelaated vid þig; Vorn Ofullkomna Prijs og Loffaung, vora Saal og Hiarta, fullt med Elſku, Virdingu og Þacklæte. Vier vilium þvi, O vor Gud, J Dag, og daglega, ſo leinge ſem vier lifum, offra og gefa þier þad, ſem þu gafſt ofs: Vora Saal og Lijkama, vor Skilningar-Vit og Limu, vora Skinſeme og Vilia, og allt þad vier høfum, bæde andlegt og lijkamlegt: Þvi hvad erum vier, eda hvad

eigum

eigum vier, sem vier hofum ecke þeged, O Herra, af þinne Hende? Sie þad Giof og Lan þitt, so er þad sannlega þinn Eigenndoomur; Tilreid þa, O HErra, þad sem þitt er so, ad þu meger finna Velþocknan i þvi, ad vier kunnum ad byria, ad endurnijast hier, epter þinne Mind, þeirre dijrdlegu Mind, til hvorrar þu skapader ofs, i fullkomnum Heilagleika og Rettlæte i Sælunne, og Odaudlegleika Lijkamans, inn til þess vier um Sijder, fyrer Sameiningu vid þig, verdum fullkomlega farsæler i Eilijfdenne. Fader vor, &c.

## Midvikudags Kvøld Bæn.

Lofa þu Sæl mijn, DRottenn, og allt hvad i mier er hanns heilaga Nafn. Lofed DRottenn þier Himnar, lofed hann a Jordune allar hanns Skepnur. Lofed DRottenn i hans Helgedoome, lofed hann i hanns Magtar vtþondu Festing. Allt hvad Andardrætt hefur, lofe DRottenn. Ja, lætum ofs nu a þessare Kvøld-Stundu, med øllum Skepnum, er hann hefur med ofs giørdt, samstemma eitt velforþient Hosianna, fyrer þeim DRottne, sem, epter þad hann hafde skapad og framleidt ofs af eingu, og gefed ofs Veru, Anda og Lijf, vidheldur ofs daglega med sijnu Almætte, fadmar ofs med sijnum Kiærleika, stijrer, stioornar og vegvijsar ofs

med

med sijnum Vijsdoome, Rettlæte, Naad og Myskun. Ef ad þu, O vor Gud! dregur eitt Augnablik i Hlie fra þijnum Skepnum þinn Krapt, sem ollum Hlutum vidheldur, þa nidurhrapa Himen og Jord, og allt þad þu skapad hefur, og verdur ad eingu, eins og þad ædur var. Ef ad þinn Oendanlege Vijsdoomur stioornar og stijrer ecke ollum Hlutum, falla þeir i eintoomes Samsleinging, Oordu og Vesold. Synged þvi Lof vorum Gude, vorum Konge, þvi Gud er Kongurenn, og rædur a Himnum og Jordu. Þad er þitt Almætte, O Gud! vor Gud, ad þu, i so morg Þusund Ar, hefur uppehalded Soolu, Twngle og Stiornum, Jordunne, Hafenu og Underdiwpunum, i þeirre Veru, sem þu gafst þeim i Skopunenne, i þeirra fyrersetta Hlaupe, Takmorkum og Hræringum. Þad er þijn elskulega Forsioon, er i so langa Tijma hefur hugad fyrer Klædum og Fædu, þeim af þijnum Skepnum, er þess þurfa. Þad ert þu, O vor Gud! sem a ollum þessum Tijma, iñ til þessa Augnabliks, hefur so agiætlega stijrt og stioornad ollum þijnum, med Skynsemt og Frijvilia begaafudu Skepnum. Þad er þiñ Vijsdoomur, sem setur þeim Vondu þeirra Takmork, og seger til þeirra, eins og þess ædande Hafs: Hijngad skalltu komast, og hier skulu brotna og leggia sig þijnar stolltu Bylgiur. Þad er þinn Vijsdoomur, sem veit ad forsvara þijn

 Born,

Børn, nær Mannanna Wijsdoomur sier eckert Rraad eda Hiælp. Pad er Þinn Wijsdoomur, sem veit ad framleida Gott af Illu, sætt af Beisku, Glede af Sorg. Þijner Veger, O Gud! eru Oransakannleger, enn alltijd vijser: Þinn Tilgængur Ogrijpannlegur, enn ætijd goodur, heilagur og rettvijs. Þetta hafa vorer Forfedur sied og kennt oss: Þetta hofum vier siælfer reynt i Dag, og hvern Dag fra voru Moodur-Lijfe, inn til þessa Tijma. Læt oss þvi, O Gud! vor Gud, eige sorga fyrer þvi sem vier vidþurfum, eige Ottast fyrer þvi sem vid oss skal framkoma; Heldur varpa vorre Sorg, vorre Ahyggiu uppa þig, med fostu og Obifanlegu Trauste, um þad, ad þu, sem hefur leidt alla Hlute so vel i so lannga Tijd, ad þu, sem betst þecker vora Þorf, fyrer þijna Alvitsku, sem og betst getur hiælpad i allre vorre Neyd, muner vissulega vidhalda, forsorga, vardveita og leida oss, af þvi þu elskar allt þad, sem þu skapad hefur. Enn epter þvi þijn sierdeilesleg Umhyggia, Vardveitsla og Elska er til þeirra, sem elska, heyra og Ottast þig, so læt oss og, O vor Gud! med voru Lijfe og Lifnade stadfesta þad, er vier med Munnenum medkennum, ad vier trwum þvi, og sannferder sieum þar um, ad þu siert einn Gud, og i ædsta Fullkomlegleika hafer þa ypparlegu Eigennlegleika, er vier tileinkum þier. Fyrst þu, O Gud ert heilagur,

og hatar allt illt, so lát oss keppast epter Helg=anenne, i Þaunkum, Ordum og Verkum, an hverrar eingenn kann ad sia þig. Þu ert al=vitur, lát oss ei þenkia illt i vorum Hiortum, þvi ad aller vorer Hiartans Þankar og leyndustu Raad, eru kunnug þier. Þu ert allstadar nær=lægur, lát oss ei syndga i Leyndum, heldur gan=ga, so sem fyrer þijnu Auglite, i Heilagleika og Rettlæte. Þu ert myskunsamur, lát oss ei ef=ast vegna Fiølda Synda vorra. Þu ert rett=látur, lát oss ei syndga til ad stoola uppa Naad=ena, heldur minnast þess, ad aller þijner Eig=innlegleikar eru eins fullkomner og Oumbreitan=leger, so vel einn sem aller. Þu ert almattug=ur, lát oss setia vora Von og Traust til þinn=ar Hiaalpar; Eige Ottast Mennena, sem ei kunna ad skada oss, nær vier erum under þinne Vàratekt, heldur Ottast þig, vorn Skapara, hvers Reide, nær vier hana forþenum med vor=um Syndum, fordiarfar bæde Lijkama og Saal, og brennur um Eilijfd.) Leid oss, O vor Gud! a þessare vorre Vegferdar = Reisu, med þijnum Visdoome, sadma oss med þinne Giædsku, vardveit oss med þijnu Almætte, so verdur vort Erfide og Fyrerteckt heilog og blessud, vor Hviild um Noottena hæg og Ohult, vort Lijf anægt, og vor Æfilok saluhiaalpleg.

Fader vor, ꝛc.

 Fimta=



# Fiñtadags Morgun Bæn.

Gud! Þu ert vor Gud. Lꜳt ofs ꜳrla vakna til þijn, og vora Sꜳlu þyrsta epter þier. Þꜳ vier gaungum til Sængur, þenkium vier til þijn, nu, vier erum uppvaknader, tolum vier uñ þig, þvi þu ert vor Hiꜳlp, og vier gledium ofs under Skugga Vængia þiña. Vier skulum lofa þig i Dag, og alla vora Daga, fyrer þijna Nꜳd, þijna Vernd, sem eñ þꜳ i Noott hefur vardveitt ofs, og fyrer alla þijna Velgiorninga. Enn hvar skulum vier finna bæde Vijsdoom til ad virda og skilia þꜳ, og Ord til ad vegsama þig, fyrer þann stærsta og forundrunarlegasta af ollum þijnum Velgiorningum, sem er vorrar follnu Nꜳtturu Uppreisn og Endurlausn? O Dypt Audæfanna! O þañ Oranfakannlega Afgrunn Guds Vijsdooms og Kiærleika! Vier Mennerner, skapader med Fullkomlegleika i Sꜳlunne og Sꜳlarennar Kroptum, epter þinne Mind, og mindader af Jordunne med Lijkomum, enn af Nꜳd giæddder med Odaudlegleika, forogtudum þessar heilogu Gꜳfur, yfergꜳfum þig vorn Skapara, hrokudum ofs upp, og vildum vera eins og þu. Vier fiellum i Adam, Vier aukum vort Fall med daglega endurnijudum Jllgyrnes Syndum. Vier vesælar af eingu framleiddar Skepnur,

sem

sem lifum fáeina Daga, setium oss upp i moote þier, vorum Skapara, strijdum i moote þier, Oendañlegum Gude. Þitt Rettlæte wtkrefur añadhvert Fullnægiu fyrer vorar Yfertrodslur, Misgiorder og Mootþrooaner, edur Hefnd og Straff. Fullnægian stendur ecke i vorre Magt, þvi vor betstu Verk eru Ohrein fyrer þijnum Augum, O heilage Gud! og vort tijmannlega Lijf getur ei bætt fyrer vora Misgiorninga, edur friðþægt þig, þu eilijfe Gud. Skule þá sw rettferduga Refsing falla yfer oss, hvernenn kuñum vier þá ad standast? Eda hver kann þá ad wtgrunda edur wtmála vorar Eymder? Allt þetta sást þu, O alvitre Gud! frá Eilijfd, þijn Myskun, þijn Elska til vor, hrærde þig, jafnvel ádur eñ vier fengum Lijf og Veru, til ad þenkia á vort Frelse. Þegar allra skapadra Anda Vijsdoomur skilde þad ei, og reiknade þad Omögulegt, ad vor Náttura, sem hafde styggt einn eilijfann Oendannlegañ Gud, kynne aptur ad giora honum Fullnægiu, og fridþægia hann, þad giorde þinn Vijsdoomur, þijn Elska mögulegt, þvi so elskader þu Heimenn, ad þu gafst wt þinn eingetenn Son, uppá þad aller þeir sem á hann trwa, fyrerfárest eige, heldur hafe eilijft Lijf. Orded, sem var Gud, vard Hold, og bygde med oss. Þu, O! vor Frelsare, og vor Gud, vardst Madur, fæddur af einne Mey, og getenn af heilögum Anda, tookst vort Hold

og Blood, tookst a þig vora Náttúru, so þu i vorre Náttúru kynner ad friðþægia þann Oendañlega Gud, gialda vora Skuld, fullnægia fyrer vora Synd, þu vor Borgunar-Madur, i vorn Stad. O þañ Ogrijpannlega Vijsdoom! Ogrijpannlegann Kiærleika! þad sem hlaut ad skie, og Meñerner ei kunnu ad afreka, ja, þad sem yfergeck allra Engla og skapadra Anda Mátt og Megn, þad giørder þu siálfur hinn Almáttuge. Gud vard Madur. Orded, fyrer hvert aller Hluter eru skapader, took uppa sig þeirra skopudu sollnu Manna Náttúru, til ad geta lided Syndareñar Straff, sem einn Madur, deya og krossfestast sem eiñ Madur, og þannig i Mannsens Stad, og iklæddur hañs Náttúru, ad bera og burttaka þad Straff og Bølvan, sem Madurenn med sinnu Frafalle hafde Forþient, og so fullkomlega ad fridþægia og fullnægia Guds heilaga Rettlæte, so þad ei skylde krefia neins af þeim, sem a þig trwa, O Frelsare! * halda sig til þijn, og hlijda þijnum Bodordum. Þu ert dáenn, iklæddur vorre Náttúru, eins og vor Borgunar-Madur, i vorn Stad, af þvi Daudenn var þad Syndareñar Straff, fyrer hvert þu Fullnægiu giørder. Þu ert aptur uppriseñ, iklæddur og sameingdur vorre Náttúru, til ad stadfesta, ad þu i vorre Náttúru, hefder fullnægt Guds Rettlæte, þar ed þu, sem varst vor Borgunar-Madur,

ur, geckst wt af Daudans Fangelse, og upphafder þig aptur þangad, hvadann þu komst, þegar þu a þig tookst vora Natturu, til Fødurfens, til ad vera þar, þangad til þu, i Tijmanns Uppfyllingu, munt aptur koma i Hatign og Dijrd, ad dæma Lifendur og Dauda. An þessarar þinnar Fullnægiu; O Frelsare! hefdum vier i voru Lijfe vered Vonarlauser, i vorum Dauda Hugguuarlauser. Þu, i hverium bioo oll Fylling Guddoomsens, lijtelækkader þig sialfann, tookst a þig Þioons Mind; og varst hlijdenn iñ til Dauda, tilad bæta fyrer vora Ohlijdne, ja, inn til Krossens Dauda, til ad taka a þig þa Bolvan, sem a oss la. Þar fyrer hefur og Gud hatt upphafed þig, og gefed þier Nafn yfer ollum Nofnum, so ad i þijnu Nafne, O JESU! skule oll Knie sig beigia, þeirra sem eru a Himnum, og a Jordunne, og under Jordunne, og ad allar Twngur skule vidurkenna, ad þu, O JEsu! siert DRotteñ, til Dijrdar Guds Fodurs. So beigium vier og þa, O Jesu! vor Knie og vor Hiortu i þijnu Nafne, og losum þig og Fodur þinn, hatt-lofadañ um Eilijfd, fyrer þetta vort eilijfa Frelse. Lat oss nu, O vor Gud! med hreinum Hiortum, upphefia heilagar Hendur, og bæde med Hiortum og Vorum samsteña hier i Tijmanum, þad Hosianna og þann Lofsaung, sem vier med ollum Utvoldum eigum ad fullkom-

na i Eilijfðenne. Þu alleina ert verdugur ad medtaka Krapt, og Mactt, og Dijrd, og Vegsemd, og Heidur. Heilagur, Heilagur, Heilagur, ert þu, vor Gud, vor DRottenn Zebaoth. Fader vor, 2c.

## Fimtadags Kvøld Bæn.

KOmed hijngad, lœtum oſs lofa DRottenn med Glede, og fagna i Huggun vors Hiælpræðes.) Lætum oſs koma med Packlæte fyrer hanns Auglit, med Packlæte, fyrer hanns i Dag, oſs veitta Vardveitſlu og Bleſſan, med Packlæte fyrer hañs, i fra blautum Barndoome, oſs audſynda Velgiørninga, med Packlæte fyrer Rijkdoom hans Þoleñmæde og Langlundargeds, ad hañ ecke hefur ſtytt vora Daga, og ſvipt oſs i burt, ſem vier høfdum velforþient, midt i vorum Syndum. Komum, lœtum oſs bidia og hniekriwpa fyrer DRottne, ſem oſs ſkapade, og bidia, ad hann, vort einaſta Tilflugt, og vor Gud, eñ nu a þeſſare Noottu, vilie vardveita oſs fra øllu Illu, og endurnæra vora Lijkame med ſætre og Ohultre Hvijld, og vorar Sæler med huggunarrijkre Fullviſſu um Fyrergefning vorra Synda, og hanns Naad. Komum, lœtum oſs hniekriwpa fyrer DRottne vorum Frelſara, ſonnum Gude og Manne, og ſegia honum og Fodurnum Lof, fyrer vora Endur=

Endurlausn, Frelse og Sæluhiælp. Þetta er vort Hiælpræde, þetta er þad eilijfa Lijf, ad vier þeckium þig, O Gud! ad þu siert sá einaste sanne Gud, og þañ þu utsender JEsum Christum. So gef oss þá þessa Þecking, O Gud! og vors Skilnings upplyst Augu, ad vier meigum hondla med ollum Heilogum, hver ad sie Vijdd og Leingd, Dypt og Hæd þijns Oendanlega Kiærleika, og sá mikle Leyndardoomur Gudrækneñar, ad Gud er opennberadur i Holdenu. Og ad vier meigum þeckia, ad þad er miklu betra ad elska Christum, eñ alla Hlute ad vita. Og hvi skyldum vier ecke elska þig, O Frelsare! sem elskader oss fyrre, já, sem elskader oss so heitt, þegar vier eñ þá vorum þijner Oviner, ad þu gafst þig i Daudann, til ad frelsa oss frá Guds Reide, og vorre tijmannlegre og eilijfre Glotun? Þu O vor Frelsare JEsu! i hverium Gudddoomsens Fylling bioo, þu sem varst heilagur, hreinn, án Syndar, án Flecks, leidst sem eiñ Illrædes Madur, og varst reiknadur sem sá, er plágadur var af Gude; Enn þu varst særdur fyrer vora Misgiorninga, og lemstradur sokum vorra Synda, hveriar þu hafder uppá þig teked ad afplána; Þar fyrer er Hegningen logd á þig, vor Borgunarmadur, uppá þad vier mættum odlast Syndanna Fyrergefning, medtakast til Náadar, og hafa Frid vid Gud, og fyrer þijnar Beniar, O vor

 Frels-

Frelsare! erum vier heilbrygder ordner.) O einn Kiærleika, sem allt yfergnæfer! Lꜳt þui, O JEsu! þennañ þinn Kiærleika, upptendra i oss brennande Kiærleika til þijn, vor Frelsare. Hafe vorar Synder neglt þig ꜳ Krossenn, so lꜳt oss hata þær, og ei ꜳ nij krossfesta þig, eda spilla þui Frelse, sem vier hofum i þijnu Blode. Hafer þu, O JEsu! gefed sialfann þig wt fyrer oss, til ad frelsa oss frꜳ ollu Oretttæte, og hreinsa þier sialfum Foolk til Eigenndooms, sem kostgiæfed være til goodra Verka, so lꜳt oss og, med þui ad gꜳnga i hræsneslausum Heilagleika og Rettlæte, syna þad vier hofum Hlutdeild i þier, og sieum þijner diirkeypter, og Foolk þijns Eigendooms, sem elske og heidre þig. Hafer þu, O Frelsare! ꜳ medann þu umgeckst ꜳ medal vor, gefed oss Epterdæme, ad vier skyldum epterfylgia þijnum Footsporum, so gef oss bæde Vilia og Dugnad til ad afleggia þann gamla Mañeñ, sem fordiarfar sig i Gyrndum til Villudooms, og ad iklæda oss þeim nija Mañe, sem epter Gude er skapadur, i sannarlegu Rettlæte og Heilagleika. Siert þu dꜳeñ og grafeñ fyrer oss, so lꜳt oss deya frꜳ Heimenum og Syndeñe, og upprijsa med þier, vor upprijsne Frelsare, til ad lifa i einu niju Lijferne, og gꜳnga so sem þeir ed eru Utlender og Framande i þessum Heime, og hafa sitt Heimile ꜳ Himnum, hvadann vier væntum þijn, vors Frelsara og

DRottenns JEsu Christi, til ad dæma Lifendur og Dauda, nær þu munt og vora fæfeingu Lijkame forklaara, ad þeir verde samlijker þijnum forklaarudum Lijkama. Læt oss þa, O vor Frelsare, samteingda þier fyrer eina sanna, lifande, hlijdna og virkelega Trw, so sem Lime a þijnum Lijkama, fylgia þier i Lijfenu, fylgia þier i Heilagleikanum, fylgia þier i Mootlætenu, fylgia þier i Daudanum.) Og so sem þu, vor Frelsare, vorr Hofud, ert upprisenn fra Daudum, og uppstijgenn til Himens, so læt oss, O JEsu! upprijsa hier fra Syndeñe, og upplypta vorum Hiortum, Huga og Sinne til þijn i þiñ Himen, yfergefa þad sem hier nidre er, og leita þess sem þar uppe er, hvar þu, vor Frelsare, ert sitiande hia Guds hægre Hende, eins og þeir, sem eru dœner fra Heimenum, og hverra Lijf er huled med Christo i Gude, uppa þad, ad nær þu, sem ert vort Lijf, opeñberar þig, mættum vier opennberast med þier i Dijrdenne, nær vier uñ Eilijfd, an Aflaats, munum gledia oss i þier, Gude vorrar Heilsugiafar, og vegsama þig an alls Enda.

Fader vor, 2c.

## Fostudags Morgun Bæn.

O! Þu mikle og hatignarlege Gud, Himens

ens og Jardar DRottenn og Skapare, sem hefur stickad Noottena til Hvijldar, og Dagenn til Erfides, og til ad ysirvega Þig i Þijnu Orde, og i Þijnum Verkum, og til ad vegsama og tilbidia Þig; Uppfyll Þu sicalsur vorar Sœaler, med Þinne Virdingu, Elsku og Þacklæte, ad vier og nu œ Þessare Morgun-Stund, meigum offra Þier vel Þægelegu Losgiordar og Þacklætes Offre, fyrer alla, og eñ nu œ Þessare Noottu audsyndu Velgiorninga. Þu hefur, O! vor Gud, lœted oss sofa roolega under Þinna Vængia Skugga; Þu hefur afvendad øllum Skada og Fordiorfun fyrer Þitt Almætte; Þu hefur fadmad oss med Þijnum Kiærleika, og vardveitt vorra Sœlna, eins vel sem vora Lijkamans Krapta. Sie Þier Þar fyrer, O! Gud, Lof, Æra og Vegsemd, nu og um̃ alla Eilijfd: Enn lœt, O! Gud, Þijna Vegsemd, ei alleina fram̃sliota af vorum Vorum, heldur lœt vort Hiarta og vora Sœl, einnig Þannig læra ad ysirvega, ad sia og Þeckia Þig! Þitt Almætte, Þijna Hœtign og Vijsdoom, i Þijnum Verkum; Þinn Heilagleika, Rettlæte, Myskun og Kiærleika, fyrer Þitt Ord, ad vier meigum siña vort mesta Epterlæte, i Þvi ad ysirvega Þinn Fullkomlegleika, prijsa Þig fyrer Þijna Giædsku, og gledia oss i Þier, vor Gud! Enn einna helst lœt oss kannast vid vora Lucku, og Losyngia Þier,

vor

vor Gud og Frelsare, ad þu hefur lǽted oss fǽdast i þinne Kyrkiu, ǽ þeim Tijma, og i þeim Stødum, hvar ed Sool þinnar sǫnnu Þeckingar og Lǽrdooms, skijn so fagurt, ad oss getur ei vantad hennar Lioos, nema vier moot-þrooannlega apturlykium vor Augu, og byrg-ium oss, fyrer hennar Geislum. Hvad er-um vier, O! nǽduge Gud og Frelsare, og hvar med høfum vier, vesǽlar og syndugar Skepnur, forþient þad fremur vorum Forfed-rum, jǽ, fremur so mørgum Þusundum, sem enn nu ǽ þessum Tijmum, sitia, annadhvert i þeim heidny Vanþeckingarennar Myrkrum, ellegar i Þokunnar annare Villu, ad þu hef-ur lǽted þitt Lioos, þreyngia sier i gegnum til vor? Þijna Dijrd upprenna yfir oss, og þinnar Nǽdar Sǽttmǽla auglystann verda fyrer oss? O! þu Guds Ande, sañur Gud i einne Veru med Fødur og Syne, þu sem ransakar Hiortun; Þu alleinn þecker þǽ, medal allra Þiooda og Twngumǽla, sem Ott-ast, heidra og elska Gud; Þau rett-trwudu, heiløgu og wtvøldu Guds Børn, sem þu sam-einar, undervijsar, frǽder og leider, og sem hlijdnast þier. Hverier ad eru þeir, sǫnnu Li-mer vors Frelsara, Osynelegu strijdande Kyrk-iu, hier ǽ Jordunne. Reyn og proofa, O þu Guds Ande! vor Hiortu, og finner þu, ad vier, jafnvel midt i Guds Kyrkiu, sieum ecke i þess-

i þessare dijrdlegu Tolú, heldur Framande fra vorum Gude, sem oss er kunngiordur, fra vorum Frelsara, hvers Nafn vier berum, og fra þeim Fride, Naad og Lucku, sem oss er daglega frambodenn, so typta og straffa oss, O þu Sanleikans Ande, fyrer vort syndugt Andvaraleyse; Lagfær þu vorar Saler fyrer Ordsens Krapt, og fyrer Skelfing i vorre Samvitsku; Skapa i oss nij Hiortu, og gef oss nijan vissann Anda, og leid oss so endurskapada og endurnijada, aptur inn i Tolu þeirra sonnu Kyrkiunnar Lima: Kenn oss ad þeckia og angrast af vorum Syndum, og voru Frafalle fra vorum Gude, og fra vorum Frelsara, og sijdann, nær vor Ande, angradur og sundurknosadur, hrædest vorra Misgiorninga Oteliande Fiolda og Vidurstyggd: So endurnær og styrk oss, O þu Huggunarennar Ande, med þeirre Huggun, þeirre Glede og þeim Fride, sem langt yfirgengur allann Vijsdoom, og Skilning Mannanna, sem þu alleina megnar ad veita; Nær þu, O heilage Ande! gefur vorum Anda Vitnesburd, ad vorar Synder sieu fyrer Christi Skuld fyrergefnar, ad vier sieum i Fride og Naad hia Gude, og ad vier sieum Guds Born, Guds Erfingiar og Samarfar Christi. Og ef Gud er þa med oss, hvor kann þa ad vera a moote oss? Hvor vill þa aklaga Guds Utvalda? Gud er hier

sem

sem rettlæter ; Hver vill fordæma ? Christur er hier sem dæenn er, jaa, miklu framar sa sem uppvakenn er, hver ad er vid Guds hægre Hond, og framgengur fyrer oss ; Enn ef sa Guds Ande, sem uppvakte JEsum, bygger i oss, Þaa mun og sa same, sem uppvakte Christum fraa Daudum, giøra vora Lijkame lifande, fyrer hanns Anda, sem bye i oss. Bw Þu Þvi, O! Guds Ande, i oss aa medann vier lifum, medtak vorn Anda nær vier deyum, og hugga Þu, gled og vardveit hann, inn til Þess hann aptur af Þier, verdur samteingdur vorum forklaarudum Lijkømum, nær vier munum prijsa og lofa Þig, Þu hæatt-lofade Þrij-eine Gud, um Eilijfd aan alls Enda.

Fader vor, 2c.

## Føstudags Kvøld Bæn.

ÞAD er kostulegur Hlutur ad Þacka DRottne, ad syngia Þijnu Nafne Lof, Þu allrahæsste, ad kunngiøra ad Morgne Þijna Naad, og Þinn Sannleika aa Noottunne.) Því Þu ert myskunsamur og naadugur, Þolenmoodur og harla goodgiarn. Þu fyrergefur oss allar vorar Synder, og græder allar vorar Meinsemder. Þu frelsar vort Lijf fraa Fordiørfunenne, og koronar oss med Naad og Myskun. Þar fyrer vilium

vier

vier nu, mædur enn vier apturlykium vor Augu, upplypta þeim, ꝍsamt med vorum Høndum og Hiørtum, til þijn, vor Gud, fra hverium øll vor Hiælp, vort Frelse og Hiælpræde kemur. Lof sie þier, O vor Gud! vor Skapare, vor Frelsare, og vor Helgare, fyrer allar þær andlegu Blessaner, med hverium þu so rijkuglega og Oforþient, af einskiærre Naad og Myskunseme, hefur blessad vorar Sæler. Lof sie þier, O vor Gud! fyrer þad ad þu med þijnu Almætte, i Dag og alla vora Lijfdaga, hefur vardveitt vora Lijkame fra øllu Tioone, Skada og Fordiorfun, veitt oss Fædslu, og blessad oss med Heilbrygde. Tak og a þessare Noottu, O! Gud vor Fader, vor Verndare, vora Sæl og Lijkame i þijna volldugu Varatekt og Verndan, ad vier a Morgun med Glede, meigum priisa þitt heilaga Nafn, og kunngiora þijna Naad og Myskun fyrer øllu Foolke. Enn þo vorer Lijkamer sofe, so læt, O Gud! vorar Sæler vaka til þijn, so ad hvert vier sofum eda vøkum, lifum eda deyum, ad vier alltijd meigum vera, og verda samteingder vid þig. O! þu Guds Ande, sem alldrei vijkur fra þeim, sem eru hreinhiartader, læt oss alldrei hryggia þig med vorum Syndum, eda reka þig fra oss fyrer Illgyrnes Vondsku og Misgiørninga: Þu Sannleikssens Ande, leid þu oss siælfur i allañ Sannleika. Gef oss sañañ Skilning

og

og Þeckingu um̃ vorn Gud, vorn Frelsara og sialfa oss, um̃ Tijmann og Eilijfdena. Þu Vijsdoomsens Ande, skeink oss þan̄ sanna Vijsdoom, sem er, ad þeckia Gud, og þann, sem hann gaf oss, vorn Frelsara JEsum Christum. Laat aldrei Veraldarennar falska Vijsdoom, so blinda vor Augu, ad vier wtvelium þad synelega, fyrer þad Osynelega; þad nalæga forgeingelega, fyrer þad epterkomande eilijfa gooda; Heldur kenn oss so ad þeckia þau soñu dijrdlegu Giæde, þaa Glede, þaa Saaluhiaalp, sem tilbwen er i þeim eilijfu Vistarverum, fyrer alla þaa sem forsmaa Heimenn, med ollum hanns Vijsdoome og Dijrd, eñ elska, heidra og hlijda Gude, so ad vier, inntekner af þeirra himnesku Hluta Epterlaungun, meigum gleyma ollu því, sem hier er nidre, og stunda epter því sem þar uppe er, hvar vor Frelsare mun vera oss allt i ollu. Og laat þu, Fridareñs Ande, þiñ Frid, þijna Huggun, þijna Glede so fylla vor Hiortu, ad Heimsens falska daarlega Glede, aldrei stadnæmest i oss.) Þu Bænareñar Ande, keñ þu oss sialfur ad þeckia, hvada Dijrd, hvada Glede i því er innefalen, ad vier hofum Leife ad gaanga med Diorfung fram̃ fyrer Gud, i vorre Bæn, og kalla: Abba Fader; Jaa, keñ oss sialfur ad bidia i Anda og Sañleika, med hreinum Hondum og helgum Hiortum, med breñande Hiortum af Kiærleika til vors Guds, og

 vors

vors Nœunga, i ſañre Trw til JEſum, i hañs Nafne, og med ſonarlegu Trauſte til vors Guds; So mun vort Morgun og vort Kvøld Offür, ſo mun vor Andvarpan um̃ Dagenn, og ivoru ſijdarſta Strijde, vera vel þægeleg fyrer vorum Gude, og verda bænheyrd af honum. O þu Guds Ande! ſem i Skopunenne færdeſt yfer Votnen, og yfer þœ audu og toomu Jord, virdſtu og nu ad færaſt yfer vor Oſtodugu, villtu, og af ollu goodu audu og toomu Hiertu, endurnija og um̃ſkapa þau, og gior þau friooſſom, i ollu þvi, ſem þægelegt er fyrer vorum Gude, prijd þau med Trw, Kiærleika, Helgun, Hreinleika, Audmykt og Hlijdne, og gior þau ad lifande Guds Muſterum. Og ſo ſem þu þecker betur eñ ſiœlfer vier, vorra megtugu Ovina Krapt og Klookſkap, og vors Holds og Bloods Vanmœtt og Oſtodugleika, ſo vijk þu, O Guds Ande! alldrei frœ oſs, heldur fullkomna ſiœlfur þad gooda Verked, ſem þu hefur uppbyriad i vorum Hiortum og Sœlum. Straffa og œminn oſs nær vier ſyndgum, reis oſs upp nær vier follum, kenn oſs ad bidia, hiœlpa oſs ad beriaſt, ſtyrk oſs nær vier efunſt, leidſeig oſs œ medann vier lifum, hugga oſs þœ vier deyum; ) Og nær vor Ande i þvi ſijdarſta Strijde megnar ei ſiœlfur ad bidia, þœ gack þu fram̃ fyrer oſs, med Owtſegiannlegum Andvorpunum, og leid oſs iñ þœngad, hvar vier ei framar

munum andvarpa, heldur þeckia, lofa og priisa þig, þu hœttlofade þrij=eine Gud, um̃ alla Eilijfd. Fader vor, 2c.



## Laugardags Morgun Bœn.

NIJTT Lioos upprennur, og nijr Dagur; Sœ seinaste Dagur i þessare Viku, og sierhver Dagur, sierhver Stund, sierhvert Augnablik þessarar Viku, lijka sem allrar vorrar Lijfs=Tijdar, vitna um̃ nija Naad, nija Velgiørninga, sem vier hofum þeiged af þier, vor Gud, og wtkrefia þvi nijann Lofsaung og Þacklœte. Himnarner uppreikna, O Gud! þijna Dijrd, og Festingarnar kunngiøra þijn Handaverk, eiñ Dagurenn seiger þad ødrum, og ein Noottin kunngiører þad annaré. Skyldum vier þœa, þijnar Skepnur, sem kunnum ad hugsa og mœla, þegia og ecke þinn Prijs wtbreida? Fyrr mœtte vor Twnga loda vid vorn Gooms, enn vier skyldum forsooma ad brwka hana, O Gud! vor Gud, til ad Lof=syngia þijnu Nafne, og þacka þier fyrer alla þijna Oteliande, so vel andlega sem lijkamlega Velgiørninga. Vier skulum priisa þig, O DRottenn vor Gud! og þacka þier i Søfnudenum, og i voru Svefn=Hwse; Þvi þu, O DRottenn vor Skapare, ert og vor Hyrder, sem oß lœtur eckert van=

 ta,

ta, af ollu þvi, sem þenar til vors Lijkamans Uppheldes, edur vors Sælar Frelses. Þu læknar og hreinsar oss, so snart sem vier fædunst, fyrer helg Vatn Skijrnarennar: Þu leider oss a rettann Veg, fyrer þiins Nafns Saker: Þu fæder, þu endurnærer Sæler vorar, med þijnu blessada Borde, sem þu tilreider fyrer oss, moot ollum vorum andlegum Ovinum, so vier ei hrædunst nockra Olucku, nockurn Ovin, nockra Þreyngin, nockra Neyd eda Freisting, þo vier gaungum i Myrkranna Dal; Þvi þu, O vor Gud! ert hia oss, þijns Ords Vondur og Stafur huggar, styrker, og vidheldur oss: Þu smyr vort Hofud, og vorar Sæler, med þijnum Anda, og skeinker vorn Bikar fullann af Naad, Myskun, Sælar-Fride, Fognude og Glede, og ollum Andans Gæfum. Þannig fylgia oss, O vor Gud! nær vier Ottunst þig, Giædska þijn og Myskun, alla vora Lijf-Daga, þannig munum vier blijfa, nær vier hlijdum og fylgum þier, vor Hyrder, i þinne Tialldbwd, vor Gud, og vardveitter verda hier i Tijmanum, enn blessader verda med Sæluhiælp sijdar i Eilijfdenne. So miklar og Otelianlde eru O Gud! þær Naader og Blessaner, er þu heiter og veiter ollum þeim, sem inngannga Samband og Sættmæla vid þig i Skijrnenne. Lat oss þvi aldrei, O Gud! siælfa brióota þennan Naadar Sættmæla og Samning, og spilla

þeim

þeim dijrdlega Avinninge, sem hann veiter oss. Erum vier i Skijrnenne hreinsader og þvegner, af vorum medfæddum Saurugleika, so lát oss eige aptur saurga oss, med Illgyrnes Syndum og Ohreinleika. Hofum vier i Skijrnenne afneitad Dioflenum, Heimenum og Syndenne, so lát oss, O vor Gud! og myskunsame Fader, eige aptur gefa oss under þá, sem eru vorra Sálna og vorrar Velferdar svarner Oviner, hverra Þioonusta er Þrældoomur, hverra Laun eru Sálar Angist og Oroo, og hverra Endalok er Fordiorfun. Hofum vier i þessum Sáttmála lofad ad elska og heidra þig, O vor Gud! af ollu Hiarta, Huga og Sinne, ad offra þier vorre Sál og Liikama, og gánga fyrer þier i Heilagleika og Rettlæte, alla vora Lijfdaga; So lát oss, O Gud! vor Gud, fyrer daglega Ydran, Angur og Trega, jafnvel fyrer vorar Breiskleikanns og Hrøsunar Synder, fyrer daglega Bæn og Akallan, fyrer dagl:ga Endurnijan af vorre Sál og Sinne, fyrer þinn i Skijrnenne oss veittann Anda-Krapt, hvern Dag, so leinge sem vier lifum, endurnija þennann vorn, vid þig, O vor Gud! i Skijrnenne giordann Sáttmála. Lát oss fyrer þins heilags Anda Rád, og þinn Krapt af Hædum, i einne sannre Trw, sannre Helgan, sannre Hlijdne og Elsku, til þijn, vor Gud, og til vors Náunga, af fremsta Megne þánig kost-

 giæsa

giæfa ad uppfylla vora Skijrnar Lofun, af vorre Hæalfu, ad þu, vór Gud, sem ert sannordur og trwfastur, og hvers Lofaner eru Jaa og Amen, ecke hindrest fyrer vort Fraafall, vora Synd og Vondsku, fraa þvi, ad uppfylla þijn af Naad i Christo, oß giordu Fyrerheit og lofadar Blessaner, sem eru: Synda vorra Fyrergéfning, Fridur, Naad og Saalar-Hvijld i vorre Sameiningu vid þig, vor Frelsare, hier i Tijmanum, og Saaluhiaalpen aa Enda i Eilijfdenne. Og so sem þu, O JEsu! vor Hyrder og Saalar Vinur, þecker vorn Vanmaatt, og þeß vegna hefur tilskickad oß vid þitt Bord eina Saalar Fædu, sem megnar ad endurnija vora andlega Krapta, So upptendra þu og sialfur i oß iñelegt Hwngur og Þorsta, epter þessu himneska Manna, þessu blessada Braude, og þessum blessada Kaleik, sem er þijns heilaga Lijkama og Bloods Sameining og Hlutdeild, og laat þinn verduga heilaga Anda tilreida oß, ad vier verdum verduger Gester, vid þessa himnesku Maaltijd, fyrer Bæn, fyrer Betran og Umvendan, fyrer Foragt aa Heimenum, og Gyrnd og Epterlaangan epter iñelegre Sameiningu vid þig, O vor Frelsare! bæde i Tijmanum og Eilijfdenne. Laat vor Hiortu uppfyllast med Elsku-fullu Þacklæte, fyrer þaa, fyrer þiñ Dauda, oß wtvegudu Endurlausn, so vorer Þanckar, vor Ord og Lofsaungar, jaa, allt vort Lijf

og

og Framferde, mege kunngiora þitt Lof, fyrer þaa Nad, sem oss er wtvegud med þÿnum Dauda; Jafnvel þo þad sie i Ofullkomlegleika, samt i Hiartans Einfeldne, hier i Tijmanum, inn til þess vier i Eilijfdeñe, þegar vier niootum Avaxtareñs af þinne Endurlausn, sem er vorra Saalna Saaluhiaalp, med ollum wtvoldum fullkomnum Ondum og Englum, kunnum ad syngia þier þad eilijfa Hosianna, og þacka og vegsama þig, fyrer þijna, i vorre Skijrn, vid þitt Bord, i voru Lijfe, i vorum Dauda, oss veitta Oteliande Velgiorninga og Goodsemder.

Fader vor, 2c.

## Laugardags Kvold Bæn.

O Þu mikle og Oendannlege Gud! fyrer hvers Augum aller skapader Hluter eru minne enn ein Ogn i Soolar-Geysla, og oll vor Ar styttre enn eitt Augnablik, hiaa hverium eingen umbreiting er Lioos og Myrkurs, Dags og Ars. Lofad vere þitt Nafn, fyrer þijna Oforþientu Giædsku,) og þijna Ogrijpañlegu Þolennmæde, sem so er Oendanuleg, sem þu siaalfur; Ad þu, so marga Daga, Vikur og Ar, hefur gefed oss Tijma, til ad geta teked i moote þinne Myskunsseme, og þvi Frelse, sem þinn Sonur hefur tilreidt, og tilbÿdur einum og sierhverium, sem taka vill aa moote þvi, stadfestande þad med Eide;

Eide, ad þu, so sannarlega sem þu lifer, villier ecke syndugs Manns Dauda, heldur ad hann umvende sier og life. Hafer þu þa, O vor Gud! vor Skapare og vor Fader, so morg Ar, ja, inn til þessa Dags, i so nædugum Tilgange, vardveitt og vidhalded voru Lijfe, vorum Sœlar og Lijfs-Kroptum, so lat oss og, O vor Gud! enn nu a þessum sijdarsta Dege Vikunnar, og a þessu Augnablike, sem kann ad vera sa seinaste Dagur og seinasta Augnablik vors Lijfs, hlijda þinne Kallan, snwa vorum Fæte fra þeim breida Syndareñar Vege, sem leider til Glotunar, og um̃-þeinkia þad, sem þenar til vors Fridar. Kenn oss O Gud! ad þeinkia, ad vier skulum deya, so vier mættum vijser verda. Sia, vorer Dagar eru sem Þverhond, og vort Lijf sem ecke var fyrer þier, þu Fader Eilijfdareñar! fyrer hverium Þusund Ar, eru sem sa Dagur, er i Giær um̃leid, og sem Nætur-Vaka; Þu sem ert fra Eilijfd til Eilijfdar, fyrr enn Fiollen urdu, og Jorden og Veroldin urdu skopud; Sem lætur Menn-na deya, og seger: Komed aptur þier Mannaña Born. O! hversu aldeiles eckert eru aller Menn, sem þo eru so heimsker, ad þeir lifa so ugg[a]lauft. Þu lætur þa, O Gud! burt lijda, sem reñande Vatn, og þeir eru sem Svefn, og sem Gras þad snema bloomgast, snarlega visnar, og ad Kvolde verdur afhoggved. Vort

Lijf

Lijf varer Siotyger Ar, nær þad kemur hætt, þa er þad Attatyger Ar, og nær þad hefur vered kostulegt, þa hefur þad vered Mæda og Erfide, þvi þad lijdur snart i burt, lijka sem flygium vier þadann. Þad gierer þijn Reide, ad vier so forgaungum, þvi þu setur vora Misgiorninga fyrer þig, og vorar heimugleaar Synder i Liooſed fyrer þitt Auglit. Vier hofum syndgad, ja, vier syndgum daglega a moote þier, vor Skapare og vor Gud, og vor Synd og Fræfall fra þier, þu Lijfſens sanna Uppspretta, hefur aflad oſs Daudañs, þvi Synden kom fyrer einn Mañ, og Dauden̄ fyrer Syndena, og so hefur Dauden̄ innþreyngt sier til vor allra, af þvi vier hofum aller syndgad. Þock, Æra og Vegsemd sie þier þar fyrer, O vor Frelsare! sem Magtena tookst fra Daudanum, med þinne Fullnægiu fyrer vorar Synder, og hefur Lijfed og Oforgeingelegleikañ i Lioos leidt. Þu sem fyrer þinn Dauda sigrader Daudann, so ad aller þeir, sem eru sanner og lifande Limer a þijnum Lijkama, kunna med Glede ad samstema þann Sigur-Saung: Daude, hvar er þinn Broddur? Helvijte, hvar er þiñ Sigur? Þvi Synden er Daudanns Broddur; Enn lofadur sie vor Gud, sem gaf oſs Siguren̄ fyrer vorn HErra JEsum Christum. Vijst er þad ad sonnu, O vor Gud! ad þijner Ovíner, sem ecke heidra þig sinn Skapara, ecke hlijda

þier, sijnum HErra, ecke þeckia edur elska þig, þeirra Fodur, heldur eru og blijfa under Syndarennar Herradæme, þeir kalla Daudann med rettu Skelfingarennar Kong; Þvi þad er hrædelegt fyrer þa, ad falla i þess reida og almættuga Guds Hendur. Enn kenn þu oss, sem Ottunst þig, O kiære Fader! so ad hugleida vorn Dauda, ad sw Hugleiding meige verda oss Vijsdooms, Glede og Huggunar Uppspretta, sem kenne oss sannann Vijsdoom i voru Lijfe, hugge og styrke oss i vorum Lijdunum og Freistingum, og gledie oss nær vier gaungum wt af Heimenum. Sie vort Lijf stutt, so ad þad eru fa Footmæl. fra Vogg unne til Grafarennar, so lat oss þar af læra, ad foragta Veraldarennar Dijrd, sem er hiegoomleg, og varer einn stuttann Tijma: Augnanna Lyst, Holdsens Gyrnd, og drambsamt Lijfernе, sem hverke kann ad anægia einum skinsemdarfullum Anda, a medann hann nijtur þess, edur fylgia einum Odaudlegum Anda, wt af Tijmanns Takmorkum. Sie vort Lijf stutt, so lat oss þenkia, ad oll vor Hrygd, Lijdun, Offookner, Siwkdoomur og Symder, Kross og Mootgangur, sem er tijmannlegur og liettur, (tijmanlegur, þad er fa Augnablik i moot Eilijfdenne, liettur, fyrer þijna Hialp, O vor Gud! sem gefur oss Krapt og Megn, til ad bera hann) gefur oss, nær vier ad eins holdum

oss

oss fast vid þig, eilijfa og yfermæta mikla Dijrd: Oss, sem ecke ælijtum þad Synelega, heldur þad Osynelega; Þvi hvad Synelegt er, þad er Stundlegt, enn hvad Osynelegt er, þad er Eilijft.) Læt þvi, O Gud! þinn Anda upplysa vörn Skilning, helga vorn Vilia, og þañig tilreida vorar Sæler, ad vier meigum verda hæfeleger til ad þeckia þig, sameinast þier, og smacka þinn Sætleika og Giædsku hier i Tijmanum, og til ad geta feinged Hlutskipte, og funded Smeck i þeirre himnesku, hreinu og andlegu Stede, sem eckert Auga hefur sied, eckert Eyra hefur heyrt, og ei hefur uppstijged i nockurs Manns Hiarta, hvad þu, O Gud! hefur tilbwed, hiæ þier, þeim, sem þig elska: Þæ Glede, sem so lijtt kann ad þocknast eda ænægia, vanhelgum, Ohreinum og holdlega sinnudum Sæalum, sem þad er Omøgulegt, ad þu, Gud allrar Helgunar, kunner ad sameinast vid þær. Gef oss þvi Krapt, O Gud! vor Gud, til ad beriast goodre Baræattu, moote Syndenne, Satan og Heimenum. Læt oss fullenda Hlauped, læt oss behalda Trwnne, og gef oss sijdann, af Næd, þæ Rettlætes Koronu, sem þiñ Sonur hefur afrekad oss, og þu, hinn rettlæte Doomare, munt gefa øllum þeim, sem elska þijna Openberan. Læt oss so gæanga fyrer þier, vor Gud, i Trw, i Heilagleika, i Rettlæte; Læt oss so sameinast vid þig med Kiærleikañs.



leikanns Bande, so mun vor Daude verda oss Fagnadar Bodskapur, og eiñ Engell, sem leyser vora Hlecke, opnar Lijfsens og Himensens Port, og leider oss til eilijfs Frelses, wt af þessu Veraldar Fangelse, til vors Födurs og vors Guds. Vor Lijkame, sem nidursaest i Vansemd og i Breiskleika, einn natturlegur Lijkame, mun fyrer þinn Krapt, O vor Gud! og fyrer þiñar Upprisu Avoxt, O vor Frelsare! aptur upprijsa i Krapte, i Dijrd, og andlega forklaradur Lijkame. Vor Saala, sem nu ecke þecker nema i Haalfverke, og sier eige nema i Raadgaatu, mun þaa, komen i fullkomed Frelse, yfirvega, þeckia og sia þig, O Gud! fra Auglite til Auglites, þeckia og yfervega þijna fullkomnu og dijrdlegu Eigennlegleika: Þitt Almætte i Sköpunenne, þinn Vijsdoom, i þijnum nu fyrer oss huldum og Ogrijpañlegum Forsioonar Vegum, þijna Giædsku og Myskun, þiñ naadarrijka Tilgaang og Tilskickaner, i voru Frelse og Endurlausn. Uppfyllter fyrer soddann klaara Sioon og Þecking, med helgre Forundran, fullkomeñe Virding og hrennande Elsku, skal vör Saal prijsa, lofa og þacka þier, uñ alla Eilijfd, fyrer þaa Sælu, sem hun nijtur i þier og fyrer þig. Laat þaa, O HErra! oss þijna Þenara fara i Fride, nær þu sier ad vier erum vidbwner, ad niioota þessarar þinnar himnesku Glede og Fridar. Laat oss i vorum Dauda

med

med Simeone, fadma þennañ þinn Son, vorn Frelsara, i vorum Trwar Ormum, og þa̋ be= fala vorar Sœler, afþvegnar i hanns Bloode, O Fader! i þijnar Hendur. Nu vilium vier og, O Gud! befala þier hana, so vel sem vora Lijkame, og i þijnar Hendur. Lifum vier a̋ Morgun, so lœt oss med Glede, sameinada vid þig, gœnga i þitt Mustere, og vegsama þitt Nafn.) Deyum vier i Nott, so lœt vorar Sœler, i þiñe himnesku Jerusalem, i þeim hœrre og fullkomnare Kor, med ollum heilogum og utvǒldum Englum og Ondum, samsyngia þann Lofsaung, sem þinn Ande þa̋ sialfur mun kenna oss.

Fader vor, 2c.



Adrar



# Adrar
# Viku=Bæner.



## Sunnudags Morgun Bæn.



Þu mikle Fader Lioosanna! sem læt=ur þessa Heims natturlega Lioos upp=renna yfir oss, send þu i Dag og alla Tijma, þad sanna Lioos Heimsens, JEsum Christum, i vor Hiortu, og læt hann liooma i þeim, so hann megé burtdrijfa þadann øll Fævitskunnar og Syndanna Myrkur; So ad vier, O! ei=lijfi Gud, meigum þeckia þig i þijnum Syne, og ødlast so Lyst og Elsku til þijn. Siaa þu, hversu vier fyrer Syndena liggium faang=ner

ner i Hiegoomans Myrkrum og erum forblinder: Þar fyrer kenn þu oss sialfur, fyrer heilagann Anda, af þijnu Orde, hvernig vier eigum ad snwa oss til þijn, og hlijdnast þier i Trwnne, so munum vier fyrst rettelega kunna ad umvenda oss, og snwa oss til þijn med Lofgiörd og Packlæte, þioona þier i þijnu Lioose, sem er þitt heilaga Ord, og vera þier þocknanleger. O HErra JEsu! Sool Riettlætesins, upprenn fyrer oss, sem Morgun-Sitiarna, og skeink oss þad Hiaalpræde, ad hvers vier saaum einkes orkad, hvert ed kemur fraa þier, fyrer þinn Anda, ef leider oss i allann Sannleika; So ad bæde þesse og aller Dagar Æfi vorrar, mættu verda ad rettum Sabbaths og Hvijldar-Dögum Saalna vorra i þier. Ken þu oss ad uppvakna af vorum naatturlegum Andvaraleyses Svefne, ad upprijsa fraa daudum Verkum, og yfirgefa Myrkranna Samkvæme, so ad þu, O JEsu! meger upplysa oss. Þu ert Lioome Dijrdarennar, O! So laat oss ecke lifa sialfum oss, heldur þier, sem fyrer oss ert daaenn og upp aptur risenn. Þu sanna klaara Lioos, sem upprunnen ert af Hædum, upprenn þu i voru Hiarta, og drottna þar yfir öllum þijnum Ovinum, hveria þu sialfur hefur sigrad i þinne Upprisu. O þu goode heilage Ande! Tilreid og helga vor Hiörtu i Dag, so þau verda mættu þijn Musteri, i hver-

ium þu meger ſijdann kenna og predika allann þennann Dag. Helga þu alla vora Þánka, Hugſkot og Skilningar-Vit, til ad medtaka og vardveita þitt Ord, og an Hræſne og Yfirdrepſkapar ad hlijda þier, i Dag, alla þeſſa Viku, og alla vora Lijfdaga, i þvi ad framgaanga i daglegre Ydran, Trw og Endurnijung. Hald þu og ſialfur, O Gud! þinn Hvijldar-Dag i oſs, og verka þad i vorum Hiortum, ad vier kunnum ad helga þitt mikla Nafn hier i Tijmanum, og ſijdann a þeim Oendanulega Eilijfdarennar Sabbatz Dege, Amen.

## Sunūdags Kvøld Bæn.

VEgſemd og Lofgiord, ſie þier nu, O þu heilage Gud og HErra! ſogd og i Tie láteñ af oſs øllum, fyrer hverium þu hefur láted, ecke einaſta þitt Náttturunnar og Dags Lioos, heldur og Naadarennar Lioos, ſkijna i Dag, fyrer þitt Ord og Anda. Þu hefur unnt oſs ſo mikellar Naadar, bæde til Lijfs og Saalar. O Gud! Vardveit þu nu ſialfur i voru Hiarta, þad ſem þinn H. Ande hefur plantad og vokſad i oſs, fyrer þitt Ord, ad vier meigum bera mikenn Avøxt i Þolennmæde til eilijfs Lijfs. Fyrergef oſs allann þann Holdſens og Andans Saurugleika, ſem hefur hindrad oſs fra ad li-

sa epter þijnum guddoomlega og fullkomna Vil-
ia. Laat og ei þann vonda og haturs-fulla
Ovin, hæfa oss med sijnum Freistinga Pilum
a þessare Noottu, til ad syndga a moote þier,
nie ræna oss þvi Gooda, sem vier hofum, fyrer
þijna Naad sied og heyrt i Dag. Hier ad
auke, vilder þu og af þinne Myskun, vaka yfir
ollu þvi, sem þu hefur gefid oss : Epter þvi ad
vier i vorre Hiartans Umvendan, og Trwnne
til þijns elskulega Sonar, afhendum og felum
þad allt i þijna Vardveitslu. Vertu i
vorre Saalu eitt Lioos i Myrkrunum, vor
Kraftur i Breiskleikanum, vor Vardveitsla,
vort Lijf og Saaluhiaalp. Vier innelykium
oss i þijnu elskurijka Hiarta, O HErra JEsu!
vorra Saalna einaste Frelsare. Laat þiñ Vil-
ia, sem er vor Trw og Ydran, vor Helgan og
Saaluhiaalp, stoduglega drottna yfir oss, og
vorum Vilia, so vier hlijdum og epterfylgium
þier, og laat oss hugsa til þijn i vorum Draum-
mum, og jafnvel i Svefnenum tala vid þig,
vorn Saalar Brwdguma. Minntu oss sialf-
ur a þad, sem vier hofum heyrt i Dag, fyrer
þinn Anda, so ad aller vorer Þaankar, Hug-
skot og Skilningar-Vit, mege allt jafnt hug-
leida þig og horfa a þig, so vor Hiortu mege
ætijd vera þijn Mustere, i hverium þu bygger
med þijnum Fodur og heilogum Anda ; Þaa
mun þijns Lioos klaara Skin, ecke alleinasta

hia oss vera, heldur og i vorum Hiortum, dag-
lega heilagt halded til þinnar Dijrdkunar og
Þioonustu, þu sem ert, og verda munt, hier og
sijdar verra Saalna einasta Hvijld og Hiálp-
ræde, fyrer Styrk þijns H. Anda, Amen.



## Mannadags Morgun Bæn.

MED Uppbyrian þessarar Viku, akollum vier þig, O! Þu heilage Fader, i Nafne JEsu Christi, vors Frelsara, ad þu vilier uppbyria i vorum Hiortum nija Naad, nija Blessan og nija Krapta, so vier mættum uppfyllast af þijnum heilaga Anda, og hanns niju Naadar-Gaafum, til ad þeinkia, tala og giora, eckert annad enn þad, sem vier vitum ad þier er þocknanlegt, og þu sialfur verkar i oss. O vor Gud! sameina þu vora Þanka og Gyrnder vid þig, fyrer Christi Kiærleika, og hreinsa vora Samvitsku med hañs Bloode, so vier meigum framganga i Dag, i þinne heilagre Hlijdne. Sia þu vor Gud, vier afhendum oss þier, alla þessa Viku, ja, alla vora Lyfs-Tijd: Styrk oss med þijnum Krapte, leid oss med þinne Hende, og al þu Onn fyrer oss med þiñe Forsioon: Gior oss flærdarlausa i Elskunne, til ad þiona þier og vorum Naunga. Þiñ Ande kenne oss, ad strijda moot Afvegaleidslum vorra for-

fordiorfudu Hiartna, og vondra Manna Villum og Hneixlunum. Laat þessarar Veraldar Hiegooma, verda oss alvarlega swrann og beiskann, so þu meger verda oss þvi sætare. Þu sem leggur oss Byrde uppaa, og hiaalpar oss til ad bera hana, hiaalpa oss ad bera þessarar Vifku Byrde, i þijnum Krapte, og leid þu oss sem einn goodur Fader, og hiaalpa oss, so vier kuñum ad fylgia þier, so sem þijn good Born, og hlijda þier, i ollu þvi er þu villt ad vier skulum giora og lijda. Blood sijdañ þijnum Blessunum, ad hvijlast yfer ollum vorum Fyrertektum og Erfide. Gack þu undann oss med þijnum Vijsdoome, so vier meigum þeckia og vita oss gaanga aa rettum Vege, uppaa þad vier meigum ecke einasta trwer og aastundunarsamer, heldur og glader og hughrauster vera, i voru Embætte. Jaa, vertu siaalfur i oss, og i ollum vorum Verkum, Upphaf, Midpartur og Ender, þier til Dijrdar, og oss til Velferdar, Amen.

## Maanadags Kvøld Bæn.

O Þu heilage og rettlaate Gud! Med þvi vor Saalar Þorf og Velferd wtheimter ad vier innum oss til þijn med daglegre Ydran, og þañig aa nij leitum þinnar Naadar, aan hverrar vier kunnum ecke eitt Augnablik ad lifa, enn sijdur lifa i þinne Vinaattu; Þess vegna bidium vier,

ad þu ſiálfur vilier, fyrer þijns Anda Typtan og Sannfæring, minna oſs á allt þad, med hveriu vier hofum á þeſſum Dege og endrarnær ſyndgad á moote þier, og ſo viked frá þijnum Bodordum. Láát oſs nu i Kvöld og alltiid, med þeim fortapada Syne, aptur ſnwa til þijn med ſundurknoſudu Hiarta. Eñ i vorre Sálar Preyngíng og Angre, vitia þu vor ad fyrra Bragde, med þinne Myſkun og Hugſvölun, ſo Myrkur Nætureñar, Myrkur Angiſtar og Mootlætes, Myrkur Daudans, ecke yferfalle oſs Otilreidda. Tak oſs nu, O Gud! þijn aumu Born, i þijna heilögu Umſioon og Varatekt, á moote öllum vorum Ovinum, eñ ſierdeiles þeim heimuglegu og verſtu, ſem eru: Synden, Dioſulleñ, Heimurenn; Og láát oſs þacka þier af öllu Hiarta, fyrer þad þu hefur eñ á þeſſum Dege vardveitt oſs fyrer þeim, og hiálpad oſs á moote þeim i voru Kalle og Embætte. Keñ þu oſs ad ſkilia þad og yfervega, hvernenn vier Omögulega, án þiñar Voku og Vardveitſlu, kunnum ad hvijlaſt Ohulter og ſkadlauſer, og ad þu eiñ ſiert ſá Iſraelis Vaktare, ſem hverke ſefur nie ſiſiar, og ert bæde goodgiarn og almáttugur, til ad upplyſa og geyma oſs þijn Born, nær vier befolum vorar Sálar þier, vorum trwlynda Skapara. Láát oſs halda voru Holde, i þinne Typtan, hreinu frá allre Syndareñar Lyſt: Láát oſs befala þier

oſs,

oss, og allt hvad vort er, og fela oss a Valld þijnu almættuga Nafne. Gef oss ad hvijlast i þier roosamlega, og med goodum Þaunkum og heilogum Gyrndum aptur uppvakna, til eins klaars og gledelegs Nædar-Dags, i Christo JEsu vorum HErra og Frelsara, Amen.

## Þridiadags Morgun Bæn.

TRwfaste Gud og Fader! Þier sie nu og ꝏll-tijd Lof og Vegsemd, fyrer þijna Giædsku, ad þu hefur lofad oss i Noott ad hvijlast under Skugga Vængia þinna. Þesse þijn Goodgyrne, skal nu þess heldur, fyrer þijna Hiælp, bæde i Dag og daglega hier epter, uppvekia og skuldbinda oss, til ad elska þig, og til þess, ad vier gyrnunst ecke ad lifa, nema i þier, so ad þann Tijma sem vier eigum epter ad lifa, meigum vier lifa i þijns Sonar Trw; Og ad hann mege vera vort Lioos og Lijf, þar til befolum vier oss nu a nij i þitt Vald, þijna Nædarleidsu og Stioornan, og bidium þig, ad þu vilier hreinsa og stioorna oss, so ad Christur vor Frelsare mege fyrer Trwna bwa i voru Hiarta; til ad verka Trwarennar Avexte i oss, sem eru: Kiærleikurenn, Vonen, Audmyktenn, Hoogværden og Þolennmæden. Kenn þu oss ad girnast einga Vellysting, utann þijna Elsku; Engann

Abata, utann þiñar Naadar og Dijrdar Rijkdoom; Einga Vegsemd, adra enn ad heita og vera þijn Born; Og þessa Vegsemd kunnum vier ad ødlast, nær vier endurfæduſtum ſyrer þitt Ord, og endurnijuſtum daglega epter þinne Iſmind. Laat oss ecke vera hugsiwka ſyrer þvi Stundlega, þvi þu hefur lofad, ad taka ecke þijna Hond fraa oss, nie yfergefa oss. Helga þu og bleſſa i Dag Verken vorra Handa, og allra þeirra ſem leita þijn med Bæn og Ydran. Jaa, wtbreid þijna Myſkun yfer alla Meñ, og frelsa alla fraa þeirra Fordiorfun og Olucku, einkannlega þaa ſem villter gaanga. Sierdeiles beſølum vier þier, og þiñe naadugre Stioornan, ſialfa oss og alla vora, ſamt andlegt og veraldlegt Yfervald, ad vier meigum under þvi lifa, gudlegu og roolegu Lijferne, i allre Gudrækne og Sidſeme. Myſkuna þig yfer almennelega Eymd og Baagende i øllum Stiettum, og giør Enda aa allre Vondſku og Hneixlunum, ſem Heimurenn er fullur af. Hiaalpa og øllum Naudſtoddum; Vert oss øllum naadugur, og gef oss þinn Frid i JEſu Nafne, Amen.

## Fridiadags Kvøld Bæn.

JAfnvel þoott vier ecke megnum noogſamlega nie ſem verdugt er, ad vidurkenna þijna Goodgyrne, O vor himneſke Fader! ſem vier ecke

alleinasta i Dag, heldur og alla Æfe vora, hofum þeiged af þier, þu sem lated hefur, og lætur oss enn nu lifa, vera og hrærast i sialfum þier; Samt bidium vier þig, ad þu vilder þo i Nad medtaka vort audmiwkt og audvirdelegt Packlæte, og þar ad auke, leggia þad til þiña Oteliande fodurlegu Velgiorninga, ad œlijta i Christo Jesu nadarsamlega þetta vort Lofgiordar-Offur. Sier i Lage þockum vier þier fyrer þad, ad þu hefur og a þessum Dege, ad nockru leite typtad og audmykt oss, fyrer þitt Ord og heilagann Anda, til ad draga vorar Saler fra þessum Heime. Þu leggur oss Byrde uppa, eñ hialpar oss til ad bera hana, og lietter einum Þwnga af oss epter aňaň; So vier med Packlæte vidurkennum, ad vier hofum einn Gud, sem hialpar, og einn DRottenn, DRotteñ, sem fra Daudanum frelsar. Þu hefur Polenmæde vid vorn Breiskleika, og stioornar oss med mikelle Mykun og Varkunseme. Lat oss þvi aldrei forsooma og foracta, misbrwka edur burtkasta med Þverwd, þessare þinne fodurlegre Nad og Giædsku, heldur gef oss hreint Hiarta, og skapa i oss nijañ og vissan Anda, kasta oss ecke i burt fra þijnu Auglite, og tak ecke þinn H. Anda fra oss. Prœofa þu oss sialfur, og reyn vort Hiarta og Siñ-lag til þijn. Ja, lat oss daglega taka oss fram i þinne lifande Þeckingu, og einlægre Elsku, og vid-

vidrett Þu sialfur i oss, allt hvad hijngad til er af oss forsoomad. Tak oss nu i Kvold i Þinn Frid og Scatt, fyrer JEsum Christum, og gef oss ad hafa vissa og stoduga Trw, um Þad Þu bæde vilier og kunner, ad vardveita og frelsa oss fra ollu Illu. Bw Þu i oss og hia oss, so mun eingen Magt, eingen Flærd Ovina vorra geta grandad oss. Myskuna Þig yfer oll Þijn Born, og yfer oll Þijn Handaverk, er Þu hefur gefed oss til Nytsemdar, og laat Þijna Blessan giora oss Þau blessud og farsæl; Og a Morgun un virdstu ad upplijsa vorum Hiortum og Munne, til ad lofa Þig hier fyrer, og sijdann ad ganga framm i Þijnum Krapte, inn til Þess ad Kvold vors Lijfs kemur, og Þinn eilijfe Dagur upprennur, sa ed eingen Umskipte hefur Lioss og Myrkurs, Amen.



## Midvikudags Morgun Bæn.

TJL Þijn, O himneske Fader! snwum vier nu vorum fyrstu Þankum, og upplyptum Þar til vorum Hiortum til Þijn, med Þeirre Bæn og Andvarpan, ad vier meigum nu i Dag lifa, vera og hrærast i sialfum Þier. Vertu nu frammveges vor Borg og sterkur Kastale, lijka sem Þu hefur trwlega vered Þad, og vakad yfer oss a Þessare Nottu, hvar fyrer allt vort Sinne og Krapt-

Kraptar vegsama þig. Vakta þu framveges, ä þessum Vege, vora Limu og Skilningarvit, einkum vor Hiortu, so vier ecke syndgum ä moote þier. Gef oss daglega ad giora Yðran og Apturhvarf, fyrer vorar Synder og Saurugleik. Lät oss i Dag þenkia, tala og giora þad alleina, sem þier þocknast, og ecker annad. Lät oss i þier lifa, eta, drecka, rädslaga, sitia, standa og ersida. Lät oss ecke lifa siälfum oss, heldur i Guds Sonar Trw, og Kiærleika til vors Näunga. Og epter þvi, O Herra! ad þu siälfur kallar þitt Nafn fastann Kastala, so skundum vier þangad, med ollum þeim, sem þu giorer rettläta, i þijns Sonar JEsu Christi Trw: J honum afhendum vier og soornfærum þier, oss siälfa, og allt þad þu hefur gefed oss, og äsamt med oss, alla þä, sem eru Limer ä hans Lijkama, hvert sem þeir eru siær eda nær; Uppä þad vier aller samañ meigum vera og verda þijn æfinnleg Eign, og eilijfur Eigenndoomur, og mættum so i Eininau Andans tilbidia þig. Lät þinn Anda, allañ þennañ Dag, typta og vegvijsa oss, lät hann leida oss i allann Sannleika, so vier ecke villt forum, heldur äfram holdum ä Vege þiña Bodorda, og lät þann vonda Ovin eige sä skiled oss vid þig. Blessa oss i Christo Jesu, med ollu þvi er þier þocknast, og gef oss Vijsdoom, Vilia og Krapt, til ad framsylgia þeirre

Kallan, i hveria þu hefur oß ſetta, til ad þioo-
na þier þar iñe, og vorum Næunga. O
vær Gud! Syn þu oß þijns Sonar Footſpor,
og gef oß ad epterfylgia honum trwlega. Vard-
veit oß fra ollum vondum Monnum, og læt
þa hverke ſkada oß, nie i Villu leida. Lat
oß kroßfeſta vort Hold, med Gyrndum og Til-
hneigingum, ſo vier ſieum viſſer uñ þad vier
tilheyrum þier, og ſieum þijner, hvert ſem vier
liſum eda deyum. Þijner Englar leide oß a
vorum Vegum, og fylke ſier i kriingum oß.
Þinn Ande leide oß a þann retta Veg til Ei-
lijfdarennar, fyrer Jeſum Chriſtum, Amen.

## Midvikudags Kvold Bæn.

O Gud! og vor himneſke Fader, virdſtu nu
ad ſamannſafna ollu voru Megne, Hugſkote og
Skilningarvitum, til þijn, ſo ſem til þeirrar
rettu Hofud Upprettu til Lijfſens, og allrar and-
legrar og tijmannlegrar Bleſſunar, ſo vier kuñ-
um verduglega ad þacka þier, fyrer Jeſum Chri-
ſtum þinn Son, i hverium þu hefur i Dag,
bleſſad oß med ollum himneſkum og tijmanleg-
um naudſynlegum Giædum, ja, gefed oß alla
gooda Hlute med honum; Fyrer hvern þu hefur
ſo aldeiles fodurlega nadad oß, og ſtaded hia
oß a þeſſum Dege. J hañs Trw og Trauſte
befolum vier og nu i Nott i þijna nadugu og

alvijſu Raadſtofun, vort Lijf, vora Krapta, og allt hvad vort er: Jaa, vier flyum undann ollum vorum Ovinum, til þijn, og felum oſs i þijnu fodurlega og elſkurijka Hiarta, þar, og hverge añarſtadar, ſkulu vorar Saaler, Anægiu, Frid og Unadſemd hafa, af þvi ad eingeñ Hlutur aa Himne nie Jordu, kann ad fullnægia edur anægia oſs, annar enn þu. Verka þu nu alleina i voru Sinne og Huga, ſo ad eingenn añar Kraptur hindre oſs fraa þijnum Vilia, og ad einger iller Andar, eda nockud añad ſkadlegt, naalæge ſig til vor. Umgyrd þu þijn Muſtere, ſem eru vor Hiortu, med þijnum logande Heſtum og Vognum, ſo ſem med einum rambyggelegum Murvegg, lijka ſem þu giorder vid Spaamanneñ fordum, ſo muñum vier ſofa rooſamlega, og verda vel til Frids, med allt þad, ſem þu lætur fram vid oſs koma; Þvi vier erum einuſiñe ordner þinn Eigeñdoomur, og þiñ Sonur hefur dijru Verde keypt oſs, uppaa þad, ad hvert vier vokum eda ſofum, lifum eda deyum, ſieum vier þijner, og ad eingenn Hlutur faae oſs ſlited wr þinne Hende, helldur ad vier mættum allrijd med honum lifa. Þeſs vegna, ſo lifum, ſofum og hvijlumſt vier, ecke oſs ſiaalfum, helldur þier, O HErra! Þad ſama frañkvæm þu nu og alltijd i oſs, fyrer Chriſtum JEſum i heilogum Anda, Amen.

Siñta=

## Fiimtadags Morgun Bæn.

Blesse oss nu framveges Fodursins eilijfi Kiærleike, fyrer JEsu Christi Blood, i Krapte heilags Anda. Lof og Packer sieu þier, O! þu þrij-eine Gud, fyrer þijna stadfostu Verndan, Nææd og Hugsvolun; Og hvar fyrer skyldum vier ecke alltijd af ollu Hiarta, trwa þier fyrer oss: Þu sem hefur oss gefid so Oteliande Bevijsingar, uppa þijna Trwfeste? Þar fyrer befolum vier oss, med ollum Rette, a þessum Dege, þijnu Valde og Vilia, med ollu þvi, er þu hefur sett oss til ad vera Rædsmenn yfir i þessum Heime; Ad þu vilder sialfur vera Upphaf og Ender, a ollu þvi er vier tokum oss fyrer ad giora a þessum Dege: Og lœter þad allt luckast þier til Dijrdar og vorum Nœunga til Þioonkunar i þijnum Kiærleika; Þar i moot bidium vier, ad þu vilder snwa fra oss ollum Ogudlegum Gyrndum, asamt allre Magt illra Anda og vondra Manna, so ad þeir eckert megne i moote oss. Still þu sialfur þa til Frids vid oss, eins og Esau og Jacob, sem ein Ordsaka hata oss, og vilia oss Illt giora; Hvad ed skedur, ef ad vorer Veger þocknast þier, og vier latum ei yfirstiiga oss þad Vonda, heldur yfirvinnum þad Vonda med Goodu. Gef oss, so sem þinnar Nœdar hlijdnum Verk-

færum

færum, ad erfida trwlega i þijnum Vijngarde. Lꝛat eckert höldlegt Andvaraleysi, edur Hræsne inntaka vor Hiortu. Gef oss gladt Sinne, i heilagre Samstemu vid þinn Vilia, og hald þu þinne Elsku stadfastlega yfir oss, so þijn Naadar-Sool aldrei undergange fyrer oss, heldur skioerna oss fra Upphafi til Enda, i Christo Jesu vorum DRottne, Amen.

## Fimtadags Kvøld Bæn.

HVert eigum vier nu ad snwa oss añarstadar heldur enn til þijn, O! þu vort Lijfsens Lioos, þar ed Myrkred er yferfalled, og Hæskenn þess heldur nalægest oss? Upplwk nu fyrer oss þijnu milda og nadarrijka Hiarta i Christo Jesu, og gef oss Naad til ad þacka þier, fyrer þad þu hefur ecke einasta unnt oss þessa umlidenns Dags Liooss, heldur og gefed oss ad ganga i þijnu Nadar Liooss, fyrer þitt Ord og Anda. Unn oss nu og a þessare Nott ad hvijlast i þijns Sonar allrahelgustu Sijdu, sem a Krossenns Tre var opnud fyrer oss, ad hun skylde vera vorum Salum Ohult Slot og Kastale, i gegn ollum Arasum vorra Ovina: þar er vor Frijstadur moote Syndenne, vor Hugsvolun i ollum Mootgange, vort Lijf i Daudanum. J Krapte þessarar Elsku og Sameiningar vid vorn Frelsara, vilium vier nu nidurleggia oss til

Hvijldar,

Hvijldar, uppa þad vor Svefn mege ſo verda oſs til Bleſſunar og Nytſemdar. Hindra þu ſialfur, O vor Gud! med þijnu Almætte, alla Magt og Viel vorra Ovina, ſo þeir ecke ſnerte eda ſkade oſs, og ſundurbrioot allar Pijlur þeirra, med hverium þeir ꝏ þeſſare Noottu kunna ad vilia hitta oſs. Leif og ecke Satan ad upperta og freiſta vor, med vondum Lyſtingum, hver ed gyrneſt ad ſælda oſs ſem annad Hveite, heldur vardveit þu vort Hold og Lijkama, hreint og Oſleckad i Helgan og Heidre; Þar ꝏ moote virdſtu ad kveikia Lioos þinnar Þeckingar, þinnar Nadar, þijns Kiærleika i vorre Sal, ſo mun hun, jafnvel þo Lijkamen̄ ſofe, alla ſijna Unadſemd hafa i þvi ad vera hiꝏ þier, og um̄gangaſt med þier, þu ſem ert vort Lioos og Hialpræde. So nidurbyrgium vier oſs nu i Afgrunne þinnar Myſkunar, med ſuſtu Trauſte þin̄ar Voku og Varatektar, og kiooſum oſs nu ad hvijla meiga alleinaſta under Skugga Vængia þin̄a, med øllum vorum Vinum, og Limum þin̄ar ſonnu Kyrkiu, vid hveria þu, lijka ſem ꝏ oſs ſialfum, vilder mikla og margfalda þijna Myſkunſeme, ſo ad lijka ſem vier tolum um̄ þig, nær vier leggium oſs til Sængur, ſo mættum vier uppvaknader vera hiꝏ þier, til ad kunngiora þijna Myſkun ad Morgne Dags, og ſijdan̄ i þijnu himneſka Rijke, Amen.

Foſtu-

# Føstudags Morgun Bæn.

O Þu lifande og sanne Gud, vor Skapare! Vor Augu skulu œ þessare Morgun-Stund uppslyta til þijn, og i þijnu Liooſe, þad er, epter þijnu Bode og Orde, leita þijn, þu sana eilijfa Lioos, i hveriu ecke[r]t Myrkur er, þu sem sialfur ert oss nœlægre, eñ vier sialfer erum. Þu allrar Blessunar lifande Uppspretta, lijka so sem skeđ er hijngad til, so uppausum vier af þier framvegis, allt hvad vier medþurfum til Lijfs og Sælar. Vier segium þier Lof og Þacker, af øllum Mætte vorum, i Christo Jesu fyrer Krapt heilags Anda, fyrer þijna sødurlega Vernd og Varatekt yfer oss, œ þessare umlideñe Nóttu. Medtak þu nu aptur i stadenn, fyrer þañ sama vorn ædsta Kennemañ JEsum Christum, vort auma og Overduga Hiarta, eins og eitt þægelegt Morgun-Offur, og wthell i þad þijnum Kiærleika fyrer H. Anda; So skulum vier allañ þeññañ Dag framganga i þeim sama þijnum Kiærleika, og lata hann ecke einasta minna oss œ, heldur og hialpa oss til ad vardveita þijn Bodord. Þu veitst þad sialfur vel, ad vier getum ecke, ja, ecke eitt Augnablik, stadest an þijn; Þess vegna samteing þu vorn Vilia vid sialfañ þig, so ad eingeñ Hlutur, i oss nie œ oss, hreifest eda hræres[t] an þijns Vilia; Miklu sijdur

ad

ad vier giørum og adhøfunst neitt, utann þad, til hvers þu siaalfur stioornar og stijrer oss. Eñ þad sem oss kañ yfer ad siaast i Dag, vilder þu siaalfur uppretta og bæta, fyrer þinn fullkomna Kiærleika og Hiaalp, so vier aan Aflaats, holdum aafram̃ i daglegre Ydran og Endurnijungu, eins og þu siaalfur krefur af oss. Vier afneitum ollu þvi, sem þier misþocknast, og þar i moot afhendum oss siaalfa, med ollu þvi sem vort er, i þitt Valld og Vilia. Þu munt giora vel vid oss i ollum Hlutum, og um̃ stijder hiaalpa oss i gegnum þessa Heims Mædu, Neyd og Hørmung, iñ i þitt eilijfa Dijrdar-Rijke, til ad lesa og vegsama þig þar Daglaatañlega, Amen.

## Føstudags Kvøld Bæn.

Nu er Kvølded komed, og Myrkred er yfir oss falled, O! vor elskulege goode Gud og Fader; Og vier erum allt of vanmaattuger til ad vardveita oss siaalfer, þvi aan þinnar Hiaalpar erum vier eckert; Þess vegna virdstu ad styrkia oss, fyrer Krapt Trwareñar, til ad færa þier Kvøld-Offur vorra Vara, fyrer alla Velgiørninga, Þolenmæde og Hiaastod oss veitta i Dag, og ad bidia þig ad þu vilder nu i Noott, standa i moote Magt allra vorra Ovina, sem med Vielum eda Valde, kynnu ad vilia skada oss. Og epter þvi þu hefur med Myrkrenu huled fyrer

oss

oſs Þetta utvortes Náttúrunnar Lioos, ſo virdſtu Þeſs heldur, ad liooma og lyſa i oſs innvortes med Þijnu Náadar-Liooſe, ſo ad vier i ollum voorum Veikleika, og áliggiande Neyd og Þorf, meigum ætijd leita og finna Raad, Huggun og Hiaalp hiaa Þier, Fodur allrar Myſkunſeme, og Gude allrar Huggunar. Snuu Þu til Þijn vorum Hiortum og Hugſkotum, ad vier ecke villt forum: Viter Þu oſs hafa viked fraa Þier i Dag, Þaa laat Þijna heilſuſamlegu typtande Raad, kalla oſs aptur til Þijn, og leida oſs aptur aa rettann Veg. Styrk og hiaalpa oſs aa moote ollu Vonsdu, ſo vier meigum lifa Þier til Lofs og Þioonuſtu: Þaa vilium vier hrooſa oſs i Þier, og eckert gott Þacka ſiaalfum oſs, af Þvi vier megnum eckert aan Þijn, heldur geſa Þier Dijrdena. Þetta vilder Þu ſiaalfur kenna oſs, og Þar med ſtioorna ollum Þijnum rett-truudum Bornum; Jaa, laata allann Þinn Sofnud i Þeſſum Heime vera Þier befaladann, ſo Þu hiaalper ſierhverium med Þolennmæde ad yfirvinna, allt Þad ſem Þu hefur honum uppaalagt af Kroſſe og Mootgange ad bera, inn til Þeſs ad aller Hluter fullkomnaſt, og Þu ſiaalfur verdur allt i ollum, nær vier erum komner til Þeirrar eilijfu Hvijldar i Chriſto Jeſu, ſem er ordenn vor Fridur og Endurlauſn, Amen.

## Laugardags Morgun Bæn.

ABBA! Elskulege Fader, hiælpa Ku, ad vier æ þessare Morgun-Stund, og alla Tijma, meigum tilbidia þig i Anda og Sannleika, og eckert annad gyrnast, eñ þad sem er þinn Vilie. Upplys oss med þijnum H. Anda, so vier þeckium og þockum þijna Voku og Varatekt yfer oss, æ þessare Nott, og hreinsa vorar Samvitskur af daudlegum Verkum, so vier i Dag og alltijd, kuñum ad þiona þier, þeim lifanda Gude, i þijnum Syne JEsu Christo. Gef ad vier eingañ Hlut þenkium og fyrer oss tokum, utann þad sem er þiñ Vilie, og þier velþocknast. Siæ, vier erum þijner, og þu hefur gefed oss þinn Son til Ydrunar og Uñvendunar, hveria þu daglega vilder verka og ævaxta i oss, fyrer þinn heilaga Anda, so vier med allre mogulegre Kostgiæfne, strijdum og stondum æ moote þvi Vonda, jæ, læatum siæ þad, ad þad sie vor Alvara, ad uppbyggia og efla vorn Christenndoom. Snw þu fræ oss ollum Onytiu Ordum og Verkum, æsamt allre Hneixlan, sem saurga kañ vorar edur añarra Sæaler. Vertu siælfur, fyrer þinn Anda, Doomare yfer voru Hiarta, Huga og Þaunkum. Vardveit og vora Fætur, so þeir ecke gæange æ forbodna Vegu, ecke heldur stadnæmest æ Vegum Syndugra: Vor Augu, ad þau lijte ei epter Hiegoomanum, og vorar Hendur, ad þær eige Illt adhafest; Þvi þu veitst, gooде Fader, hversu

marg-

marger Ovíner ad standa allt i kríjngum vora Sææl, til ad leida hana afvega, og hverſu hægt þad er, ad saurga og fella hana. O Herra! Þad skal vera alleina þijn Æra, ad þu hiælper oss, so vor Footur skridne ecke, og vor Trw skal hughreysta sig þar vid, ad vier munum æfiñlega halda oss fast vid þig, og aldrei fra þier vijkia. Vier skulum og kuñgiora odrum þijn Dæsemdarverk, hveria vier bidium ad þu vilder og so draga til þijn, og leida i þijnum Kiærleikans Taugum, fyrer þinn elſkulegann Son JEsum Christum, i Krapte heilags Anda, Amen.

## Laugardags Kvøld Bæn.

SO vere þier nu, O vor elſkulege Fader a Himnum! Dijrd, Æra og Vegsemd tillagd, fyrer þad þu hefur so nædarsamlega leidt oss hijngad til, og læted oss fullenda þeñan Dag, eins og alla þessa Viku. Vier vidurkeñum þier til Dijrdar, ad vier ecke hefdum hijngad til kuñad ad lifa, eñ siidur kuñad ad lifa med Glede, Roo og Fride, allra sijdst an Glæpa og Lasta, hefde þijn Tilsioon og Adgiætne ecke vardveitt vorn Anda og vorar Sæler, so þær ecke syndgudu vijsvitande a moote þier. So værum vier þa allra Maña fæævijsaster, ef vier nu framveges, og sierdeiles a þessare Nootti, ecke vildum befala oss, og trwa fyrer oss, þvilijkum almættugum Gude og elſkulegum Fodur. O

vor Gud og vor Fader! Drag nu allt hvad i ofs er, epter þier og til þijn, ad vier meigum blijfa i þier, og þu i ofs. Lat ofs hugsa til þijns Nafns, þa vier leggium ofs til Sængur, og þa vier uppvoknum, tala um þig. Lat ecke vora Lijkame sofa, og ecke vor Augu apturlykiast, fyrr en vier finnum þig lifande ad bwa og verka i ofs; So vier ecke an þijn, voguin ad trwa. fyrer ofs Svefnenum, sem er Daudans Brooder, nie Myrkrenu, sem er Grafarenar Imind. Hneig þu vort Hiarta til þijn, fyrer sanna Umvendan til þijn. Lat þijna Elsku i ofs vera sterkare enn Daudann, ja, sterkare enn alla Hluts i Heimenum, so ad vier, fyrer þig, getum allt þad yfervinned, sem ofs kann ad areita, þvijnga og Qvada. Legg þijna vinstre Hond under vort Hofud, og þijn hægre Hond umfadme ofs. Gef vorre Sal og Lijkama ad hvijlast hægt og roosamlega, epter þinne Oforþientre Myskun, sem ofs er betre enn Lijfed. Uppliwk fyrer ofs þijnu Nadar og Myskunar Skaute, og skyl ofs i þinne Tialdbwd, a þeirre vondu Tijd; Ja, þegar vor Ovinur syneft ad vera ofs nærstur, so vertu ofs þa en nu nalægre, og lat ofs þa sia og reyna, ad þu siert sa Israelis Vaktare, sem hverke sefur nie sifiar; Einkum lat ofs i moote hans Umsatrum, vera þijna Saude, O Herra JEsu! sem teiknader siert i þijnum Hondum, og wr þinne Hende fær eingenn

genn slited. Laat oss aldrei dragast fraa þier, i nockurt holdlegt Andvaraleyse, heldur vek þu vorn Anda upp, so hañ andvarpe ætijd til þijn, og jafnvel i Svefnenum ahaange þier fastlega; So mun eingenn Hlutur megna ad adskilia þad, er þinn Ande hefur samteingt, sem er, þig fraa oss, eda oss fraa þier, þvi vier skulum hiedann af ecke sleppa þier, fyrr enn þu blessar oss med eilijfre Blessan, og alla þaa, sem þig uñ þad sama bidia, fyrer JEsum Christum AMEN.





# Til Uppfyllingar þessum Bladsijdum, setst epterfilgiande Psalmur,

Kvedeñ af S. J. D.

Med Lag, A Gud alleina.

TAlve mijn saña, sætarsta Heilsuboot, marg-þiaddra Maña, Meinsemda Lækning flioot. O Jesu! alla, er Hiartans Piøning fier, kveinande eg kalla, kom þu ad biarga mier, hnigna og halla, Hiervistar-Stundum fer.

J Holdsins Hreise, halden med Sorgar-Bønd, loks ad uppleyse, laungar nu mijna Ønd, vasen Volæde, veit til Gledennar sautt, af margskyns Mæde, mist hef nær Andardrautt, kasen Kvalræde, kemst vid au allañ Hautt.

Graut-Skija Skugge, skelfer mig Dag sem Noott, Otte og Ugge, iñra burtdregur Proott, Lijkamañ lemur, laungsamt Angistar Strijd, Kvørtun uppkemur: Kom þu Gud! Hardt eg lijd, Twngan sier temur, ad tala slijkt fyrr og sijd.

Rauner hef ratad, reynt stundum Lucku Brest, Heims Kiæte hatad, hvad Drotteñ þecker best, nu fæ eg nærsta, numed, þad svijda kañ, Hyrting þess Hædsta, hañ þau vill typtaMañ, fyrr veit eg Fædsta, fallna i þyngraBañ.

Ytra umfloten, ofþwngum Hrygda Straum, mæg er Mautt-þroten, mijn Lima Hræring aum, Blood, Hold med Beinum, bæde veiklegt og þiaud, af margskyns Meinum, mist hefur alla Daud, O Gud! þier einum, eg fæ þau Hørmung tiaud.

Drotteñ þu dvelur, Daudañs þau Lausn eg kys, Taur mijn samt telur, til er þvi Huggun vijs, eg mau eñ bijda, æ! hvad leinge, miñ Gud, lætur mig lijda, Lijfsins þañ. Ofsøgnud, þijn Nauden þijda, þvi rædur hæblessud.

Urræden.

Urrædenecke, añarra ad fara a Leit, Þvi veit nie Þecke, Þijn nema Fyrerheit, kveinande eg klaga, kiæraste Fader, Þo, uñ Æfi-Daga, er mier gafst Hægd og Roo, Lifn adeñ laga, leinge eg undañ drov.

Ræteft sw Ræda, rettvijs er Doomur Þiñ. Hvern skylde ei hræda, Hyrtingar Vonduriñ? Barned brotlega, bera ma Verka Giøld, a alla Vega, opt fyrer Lijfsens Kvøld, so svipteft Trega, seiñe a Hefndar Øld.

Iker Ønd mijna, Alyktan gengur sw, sart svellur Pijna, Samvitskan vaknar nu, lioota so Lefte, lætur mig kañaft vid, fyrr Þvi eg feste, sorvijslegt Hugbodid, ad eg sem Verste, æft hafe Lijferñid.

Ottaft øll Verken, eg mijn, Þau kome i Lioos, mørg siñ Þefs Merken, mañløgt ei stodar Hroos. Hver hulest getur? Hiørtun Gud ransakar, hañ sem heldst metur, hvad i Þeim soolged var, sig fyrer setur, Synder heimuglegar.

Hef eg Þo hreina, Hiartans trwfasta Voñ, a Þig alleina, O! Jesu kiær GudsSon, ad Myskun meige, meira eñ Rettlæted hier, og Straffed eige, au Vægdar lukest mier, Saud Þiñ mig seige, sem ecke tapast ber.

Af Ordum Þijnum, og Fyrerheita Rausñ, Mailesnum mijnum, meddeilest Endurlausñ, komstu ad kalla, Christur, syndugа Meñ, lijka letst falla, lijknarfull Tilbodeñ: Orþiada alla, endurnæra vil señ.

Nu er eg nærsta, naudþyrst Skepna og hreld, Giædsku Lind glærsta, giarnañ mig til Þijn held, Svølun ylmsæta, Sailen mijn fiñur bratt, Þo vilie væta, Vaingana Taaren Þratt, betst kañtu ad bæta, Vøl mitt, a allañ Hatt.

Sart Holde svijdur, siñ Kroſs ad lijda hier; Eñ Ønd mijn bijdur, epter Huggun fra Þier, og Þeirre afklædast, aumlegu Tialdbwd sa, hier sem nu hrædast, Heilbrygdra Augu ad sia, giørvøll Mein grædast, Gud minn, Þier sitiar hia.

Dag sierhvern dregur, Daudañs Tilkomu nær, æ aistwdleg,

wdlegur, er hañ, sem Vinur kiær, Lijfs Dyr upplætur/ leider i Føgnud iñ, þar sem er sætur, Sælar Uñusteñ miñ, blessadar Vætur, ad Vøle og Eymdu'n fiñ.

O! Lijffens Lioome, Lioos Heimsens JEsu Christ, at effta Doome, uppbyriast Gleden fyrst, þiñ Dijrdar Dagur, dregur burt Harma Skij, miñ hæckar Hagur, hroosa mun Sælen þvi, Forklæran, fagur, fagnar Lijkameñ i.

Tærugar Tijder, tilsettar mier i Heim, so þverra uñt sijder, siest fyrer Enda ad þeim, epter Strijd uñed, og Lijfs Koronu sæ, hef Hlauped ruñed, Hnossenu bijheld æ, Eymda Afgruñed, uppþornar, Lande næ.

Trwen þvi tekur, Tijmans Uñskiptum vel, Sælu Sioon hrekur, Sorgaña burtu Jel, þa þorna Tæren, þegar Rettlætes Sool, uñ eilijf Aren, er mitt Hlyenda Skiool, Soott, Kvøl og Særen, siest ei vid Lambsens Stool.

Eja! þad ædsta, Ynde og Hiartans Lyst, Guds Jmind glæsta, gef mier, JEsu, sem fyrst, þa skal Lof læra, Lijf mitt, Sæl, Hugur, Ged, fagurt þier færa, Fødur og Anda med, Odaudleg Æra, uñ Alder so verde tied.

Riett mier Hønd, HErra, heyr Bæn og ælijt Tær, Prauter lat þverra, þijn fyrer Pijslar-Sær; Kom þu, eg kalla, kveinande Sælen er, æ! fyrer alla, Angist sem leidstu hier, meir mættu valla, minn JESU! seinka þier. AMEN.

